Andlegt

# Versa-Safn

innihaldandi

Missiraskipta- Hátída- Helgi- daga- Qvøld- og Morgun og Dagleg Vers

til gudrækilegrar Brúkunar

í Heimahúsum.



Selst óinnbundid á Prentp. 40 ß. S. M.

Videyar Klaustri, 1839.

Prentad á kostnad Secret. O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Innihald.

Þetta andlega Versa-Safn, sem hentugt er um hönd ad hafa af ýngri og eldri vid mörg tímaskipti og í mörgum lífsins tilfellum, þeim til gudrækilegrar andagtar og sálnhjálplegra nota, er fyrir nockrum tíma innsendt til prentunar, en — hvör höfundur muni vera til Þggja fyrstu Flockanna, allra undir þessu Lagi: Eilíft lífid er æskilegt, er mér ókunnugt, nema hvad fáein vers fyrirkoma í þeim, sem eignud eru Prestinum Síra Páli sál. Bjarnasyni, er þjónadi fyrst sem Capellan og sídan Prestur á Undirfelli í Húnavatns Sýslu frá 1789 til 1838, alls 49 ár, þar til hann dó 6ta Martii s. á. 75 ára; hann var gáfumadur, gódur Klerkur og lipurt skáld, og meinast ennfremur mörg af Versunum frá bls. 141 til bls. 151 ad vera af honum qvedin. Fjórdi Flockurinn er orktur af Prestinum Síra Sigurdi sáluga

Ingimundssyni, er þjónadi sem Capel-lan og Prestur í Selvogs Þingum frá 1767 til 1788, en upp þadan sem Prestur Arnarbælis Sókna í Ölvesi innan Arnes Sýslu til 1820, þá hann dó þann 29da Nóvembr. s. á. eptir 53 Prests Embættis ár, 77 ára gamall. Hann var gáfumadur, afbragds gódur Predikari sinnar tídar og lidugt Skáld.

Utgéfarinn.

# Fyrsti Flockur,

inniheldur

## Missira-Skipta, Hátída-og Helgidaga-vers,

øll med sama lag:

Eilist lísid er æskilegt.

### A) Missira-Skipta-vers.

#### a) Vetrar vers.

Veitt sé þér, Drottinn! vegsemd blíd, virding og þacklæted, af Englum og mønnum árla og síd, á himni og jordu téd; afslifad Sumar útendad, án slisa høfum nú, innra og ytra oss blessad, af miskun hefir þú; enn til þín qvekum aumir vær, eilífur dýrdar ljóminn skjær, væga géf oss nú Vetrar tíd, væng þinn yfir oss breid, umkríngi oss þín adstod blíd, afstýrdu hvørskyns neyd, vort þegar endast æsi stríd, í eilíft Sumar innleid!

Vetur yndælann veit oss nú, Veturinn byrjaða, Vetrarins Herra vor Jesú, Vetrar skjól blessaða, Vetur ydrunar, Vetur friðs, Vetur Guds nálægdar, Vetur qvittunar vondsku síðs, Vetur lífs betrunar, Vetur sem stýrir velferð lífs, Vetur sem rívir þrautir kífs, í Vetur ef kalla villt oss frá, Vetrinum útlegdar, Vetur og Sumar vild þín á, verði oss allstaðar, veit oss um síðir, vor Gud! ná, vist sælu himneskrar.

Vetur er kominn, Sumar sól, sæl burtu liðin er, ætíð veraldar allt um ból, ótfluga svona þver, utan Guds náð og elskan klár, aldrei sú bregðast kann, sem er hún bæði síð og ár, syndugann hér við mann, komandi því á Vetri vér, vora sál og líf felum þér, forda oss ellu fári og neyd, forlát oss misgjörðer, þína oss yfir blíða breið, blessan hvar erum vér, lífsins nær fallvaltt linnir skeið, leið oss í dýrð með þér.

Sjest nú á enda Sumar tíð, sjest komin Vetrar stund, sjest lækka gaungu sólin blíð,

sjest ódum følna grund, sjest grasid falla sem í dá, sjest snjórinn allt um kríng, margskyns sjest horfin fegurd frá, á flestu sjest umbreyting, Jesú! þú vert ofs Sumar sól, sértu Jesús vort verndar skjól, Jesús sjái vorn jafnan hag, Jesús í gledi og neyd, framferdi besta færi í lag, í fridi Jesús ofs leid, Jesús um nótt, Jesús um dag, Jesús í lífi og deyd.

---

Sæl er nú lidin Sumar tíd, sé þér, Gud! lof og dýrd, af ollum túngum ár og síd, Engla og manna skýrd, unadsemd fyrir alla þá, er þú létst vort í skaut, hásæti' þínu falla frá, med farsældar bléma skraut, vér biðjum þig í Vetur eins, vid ángurs kjørum forda meins, alla vora þú gaungu greid, géf lífs og sálar frid, ástar væng þinn ofs yfirbreid, og loks um daudans hlid, útlegdar burt úr ánaud leid, inní føðurlandid.

## b) Sumar vers.

Eilíft þakklæti æ sé þér, almáttug þrenníng blíd! einn vetur nú á enda er, uppbyrjast Sumar tíd, sé nú þín miskun, Herra hýr, himin blessunar klár, yfir ofs aumum elsku

hlí:, öll hér um lífsins ár, Drottinn! þín blessuð hægri hönd, hjúkri oss bædi á lífi og önd, ó herra Jesú! hjá oss blíf, hér medan eigum tof, frá allskyns voda oss öllum hlíf, eymdanna stittu kof, ó Jesú! géf oss eilíft líf, öllum í Sumargjof.

Lífstundir vorar líkjast vid, lídinna vetrar tíd, eptir hvörja med enga bid, eymdanna dinur hríd, lífstunda súrt þó súpum saup, forgavötnunum hjá, blódugast Jesú benjastaup, blessad oss svali þá, ockar tár honum aptur vér, af hjarta færum þacklátir, oss fyrir veitta ást og hlíf, um lidna vetrar tof, og eptir lidid eymda kíf, og ángistanna kof, ó Jesú! géf oss eilíft líf, öllum í Sumargjof.

Lof sjé þér Gud og Endurnari minn! fyrir lidna vetrar tíd, se'um vér oss í fadminn þinn, framvegis, þreaníng blíd! framar bidjum þig, Fadir kjær! um farsæld Sumarsins þó, med ástar gjædum oss endurnær, af himni, jörd og sjó, hvörs kyns lífsforum varna vid, veittu oss lífs og sálar frid, mein=

gjördum Satans mest við hlíf, meðan hér eigum tef, eptir mótlætis endað kíf, og holdið leggst í gröf, ó Jesú! géf oss eilíft líf, öllum í Sumargjöf.

Lofaður sértu, lifandi Guð! liðin er Vetrar tíð, miskunin þín er margföldud, við mannina fyrr og síð, varðveitt hefir þín voldug hönd, vesælann mig og mitt, svo engin slís né auðnu gröndt, oss hefir neina hitt, þar fyrir ætíð þökkum vér, þó ekki verði svo sem ber, framvegis géf oss, Faðir minn! fyrir þíns Sonar deyð, sálar heill, frið og fögnuðinn, fyrrtir erum þá neyð, sú er, besta Sumargjöfin, svo fæst vel endað skeið.

Rennur oss upp að nýu nú, náðar og Sumar ljós, margfaldist lof þitt, minn Jesú! magt, æra, dýrð og hrós, úr hafi misgjörða hrópum vér, í haf þinnar miskunar, bjargi oss þínir blóðlækir, burt þvoi syndirnar, ljós þinnar náðar ljómi best, ljós trúarinnar viðnæríst, ljós þinna orða lýsi hér, ljós skíni kjærleikans, géf í ljósi nú gaungum vér, glæð þú ljós skírleikans,

med børnum ljóſsins bleſsadir, byggjum ljóſs himna ranns.

---

O þú bleſsadi aldanna, eilífur Fadir kjær! met þú oſs ſkipti miſsira, í miſkun þinni vær, med nýu Sumri hinn nýa mann, nádin þín upplífgi, ſvo þægilegur þér ſé hann, þinn vilja ſtundandi, ſamvitſku þjáníng ſefa þú, ſofandi hjørtun uppvektú, hriggum vertu trúr huggari, hjálp beſta naudſtøddum, yfirvaldanna verndari, vørn beſta þegnunum, kjor hnoſsid allri kriſtninni, krøptug ró deyendum.

---

Sumargjøf, Jeſú! ſértu vor, Sumar farſælt oſs veit, Sumarſins helga ſérhvørt ſpor, Sumarſaung géfdu neit; Sumar fridar og ſamlindis, Sumar lífs betrunar, Sumar innra manns ſælgjætis, Sumar Guds náleegdar, ſynda qvittunar Sumar géf, Sum, arid þinni bleſsan vef, í Sumar ef burtu ſofnum vér, og ſúpum daudans ſkál, eda hvenær ſem þóknaſt þér, þrjóti lífs reiſa hál, í Sumars eilífu ſamviſtir, ſjálfur tak vora ſál.

---

Sólin réttlætis, sæll Jesú! sól fegri ljóma ber, sól upprennandi Sumars enn nú, sól blessud vertu mér, sól huggunar í sorgunum, sól gledi og fagnadar, sól qvittunar frá syndunum, sól-allskyns fagnadar, sól æfinnar þá sígur mín, sól mér upprenni, Jesú! þín, sól = bjartann mig og synda frí, sólar grams leidi í-høll, sólar þeim dýrdar salnum í, sól þerrar tárin øll, sól þar ei hindra sorgar ský, sól fegri klædist mjøll.

---

## B) Hátída-vers.

### a) A Jólanótt.

Adfánga dagur dauda míns, Drottinn! þá kémur ad, hyl mig í undum hjarta þíns, hef eg þar gódann stad, eilífrar gledi eg svo Jól, jafnan haldi med þér, þá er upprunnin sú mér sól, sem ad eg þrái hér, hlackandi sjer þá hugur minn, Herra! í gledi salinn þinn, uppá þad hryggdar eina skál, eg vil nú súpa fús, þegar þér sjálfum þykir mál, þá leid mig í þín hús, eg fel þér hjarta, sinni og sál, sætasti minn Jesús!

---

Jacobs stjarna upprunnin er, og oss nú af Guds náð skín, vondur Jesse nú blómgun ber, blessun sú aldrei dvín, ein meya hefir alið son, orð guddómligt varð hold, eilífs lífs géfst því œdsta von, oss sem lifum á fold, fögnum nú fœding Frelsarans, flýum ydrandi strax til hans, látum hans lof ei líða rírð, lýsum og hrósum því, með fagnaði eru oss fœrð og skírð, friðar tíðindi ný, sé Guði Föður sjálfum dýrð, súngin upphœðum í.

## Á Jólum.

Fagni nú himnar, fagni jörð, fœddur er Jesús oss, fagni nú öll hans friðkeipt hjörð, fagnandi lífsins hnoss, með örmum trúar í elsku og ást, offrandi þakklœte, að því skyldum vér auðmjúkt dást, ei draga slíkt í hlé, úr Föðursins skauti frið og náð, fœrði oss blessað meyar sáð, af öllum sem hafa önd og mál, aukist Guðs vegsemd blíð, í öllum áttum fyrir útan tál, allstaðar fyrr og síð, hans lof útbreiði hvör ein sál, sem himin og jörð eru víð.

---

Fœðíng í syndum fleckar mig, fœðíng Jesú hreinsar; fœðíngin mín er fátœklig,

fæðíng Jesú audgar; í fæðíng tárum fékk eg sád, fæðíng Jesú huggar; í fæðíng er dauða fyrir spáð, fæðíng Jesú lífgar; fæðumst til eymda allir vér, en Jesú fæðíng hagræðer; fæðíng að nýu færi oss nú, fæðíngin Guðs sonar; fæððum Guði æ fagna þú, er fæðíng hans boðuð var; fæðíngin þín, fæddi Jesú! fæði oss til dýrðar.

---

Fæddur er Jesús fögnum vér, friðurinn kominn því, á milli Guðs og manna er; miðast burt rauna ský, upprunnin fögur eðla stjær, er Jacobs stjarnan blíð, Betlehems svala brunnur kjær, býðst fram ólþyrstum lýð; á reisi bøggin sýnir sig, sól skeín réttlætis prýðilig, grátur er horfin, gleðin sjest, Guðs Sonur hjá oss er, rótin Jesse nú blómgast best, brauðið lífs veitist hér, ó þú rós Sarons á þér fest, allra vor trú sem ber.

---

Blessaður Guð vor blessi Jól, blessaður tignar hár, Jesú réttlætis sanna sól, sigurvegarinn klár, ó þú nýfæddi Köngur kjær! kom í mitt hjartans hús, með anda þín-

um ofs endurnær, eilífi minn Jesús! upplýs vor hjørtu, hug og brjóst, ad heidrum vér þig leint og ljóst, ljósid þitt, Jesú! lýsi ofs, og leidi um eymdar dal; þad er vor gledi og hærsta hnofs, ad heyra þitt nádar tal, ó Drottinn! hjálpa øllum ofs, í eilífann dýrdar sal.

---

Gled þig nú Jesu brúdur best, bidill þinn kominn er, fagna þú sem ad fjolhrygdist, fridur Guds veitist þér, adstodarleysi í anda gledst, adstod af himni fæst, upplifna þú sem aumur qvedst, eymda bótin er næst, fátækur er nú fullríkur, fjøtradur eymdum afleystur, þú nakti madur nemur skjól, náhleikur líf ødlast, hrygd, myrkur búin, sjer nú sól, síþreittur aflýast, þetta ofs færi eg bid Jól, Jesú þad afrekast.

---

Fædíngu Jesú fagni menn, fagni sál, andi, géd, fagni lífs æda festíngen, fagni vort hjarta med, fagni jørdin og flód vatnsins, því fagnar himininn, fagnandi barni fridarins, fagni hvør blóddropinn, fagni Englanna fagur her, fagni himnanna krapt-

arner, fögnum því medur fagnendum, fögnum med þackargjørd, fögnum med øllum frelsudum, fögnum svo hér á jørd, ad fögnud medur útvøldum, ødlumst í himnadýrd.

Um midnætti, sálar sól upprann, sólin réttlætisins, Guddómsins sólin Gud og mann, gledi-sól mannkynsins; hin fríðasta sól er fæst ad sjást, fridar sólskin sem baud, lífgandi sól med ljómans ást, lýsandi sól í naud; innlífist vorri sál sú sól, sólin Jesús um þessi Jól, vid yndælis sól þá synd hjadni, sól-þerrist armædan, séum í Jesú sólskini, sól-byrtist innri mann, andliga sól hér sjáandi, sól Guds í dýrdar rann.

Brúdgumi vor í Betlehem, barn fæddist grátandi, segjandi til vor: sjá eg kém, sjúkur af elskunni, allir sem Jesúm elska af rót, anda Guds verkfærin, taki brúdguma og barni á mót, breidandi fadminn sinn, brúdkaups salinn til búum vér, bljúgt og audmjúkt þad hjartað er, vertu Jesú velkominn hér, vorkénn ódugleikann, þíns heilaga anda ástgjafer, upplýsi hjarta rann, svo

allt hvað með oss býr unni þér, ó Jesú Guð og mann!

---

Eilífrar sælu yndis Jól, upp munu renna skjótt, ljómar þar fögur lífsins sól, sem lýðum byrtist í nótt, mæðu þá hverfa mirkurin, mótlæti enginn sjer, eins og míns Jesú útlegðin, umbreitt í sælu er, þótt Jesús lægi í hey og hálm, eg hef það fyrir minn Jóla sálm, þar sálar fátækt og meinin mín, fyrir mótlæti Jesú þver, lángt mun ei þar til lofsætt skín, ljós fyrir augum mér, og opinberast sú dýrð ei dvín, Drottinn Jesú hjá þér.

---

Senn munu oss skína sigur Jól, þó synd og eymd skyggi á, rennur þá skjær réttlætis sól, er reifum vefjast má, að Jesús barst oss á hey og hálm, haldin fátæklega, gjöri eg að Jóla gleði sálm, grátfegin andlega, í anda voladir allir fá, umvafðir syndum bót þar á, sem taka Jesúm í trúar arm, til þess borinn á jörð, að líða hér í holdi harm, og heimfæra sáttargjörð; vert þú í Guði gladvær hvarm, Guðs endurleysta hjörð.

---

Í myrkrum synda og mótlætis, mædst höfum lánga tíd, en ljómi Guds dýrdar andlitis, og hans ímindin fríd, vor nýfæddi Jesús nádar-fús, nú skjær oss upprennur, nppljómandi vort andar hús, æ þér hvør lífs kraptur, þjóni med trú og þolgjædi, þíðri hógværd og bæninni, fridur þinn skíni allra á, andar og lífsins hag, er þér blídni og elsku tjá, vid yndi og mótgángs slag, unn oss þér halda öllum hjá, eilífann Jóladag.

---

Jesús veri vort Jólaskárt, Jesús sé æ med mér, Jesú ord veri mín Jóla art, Jesús míg taki ad sér, vek Jesús þann er svaf í synd, sjúkum vert Jesús hægd, sé Jesús þyrstum svala lind, send þú oss Jesús vægd, Jesús huggi mig hriggvann mann, handleid þú Jesú vegviltann, frelsa, ó Jesú! fólkid þitt, finn Jesús týndann saud, um sár vor Jesús sjálfur bitt, svaungum vert Jesús braud, hreinsa ó Jesú! hjartad mitt, haf Jesús oss fra naud.

---

Nú er uppfylling tímans téd, tímgast Arons vøndur; Imanúel Gud er ofs med, á reifid døgg fellur; hirdir saudanna sendist þér, sem Abel teikna vann, fyrirmindanir falla hér, fenginn er Gud og mann, sáttmáls ørkin ofs sækir heim, fjofalda ljósa skjakann geim, líf, heill, sáluhjálp fljótt eg finn, fyrst Jesse rót er græn, sje eg nú góda Eirorminn, á hann mín sála mæn, Jól andar bestu, Jesú minn! Já og amen er bæn.

---

Sólar uppruna' sje eg nú, í svartnætti mótlætis, vid þína fæding, vor Jesú! veikum til indælis; hafi náttúrleg himin sól, haft krapt varma og ljóss, þá ljós = vermist nú þessi Jól, í þér, Jesú! øllum ofs, leiptradu í hjarta, lífga sál, lífs anda vermdu, helga mál, sólskin Gudrœknis send ofs hér, Sólar krapt réttlætis, þín Sólar børn ad séum vér, sól = bjartir innvortis, og sól fegri um eilífd syngjum þér, sólar ljód Gudrœknis.

---

Hjartans yndælust happa stund, hugarins rósemd frid, nú upprennur í nádar mund,

nálæga Jóla tíd, hér er Jesús sem hjálpar best, hønd Jesú réttist mér, sjálfum Jesú eg samteingist, sok mína Jesús ber, ó! Jesús grætur eins og barn, æ! hvad Jesús er nádar gjarn, vøggu tár Jesú væti kinn, verm Jesú innra mann, barns óp Jesú kýs bænstyrk minn, barni Jesú eg ann, kom Jesú! hér med kjærleik þinn, krýn, Jesú! hjarta rann.

---

Þolinmædi er mikil þín, mildust réttlætis sól! ad þitt nádar ljós yfir oss skín, enn nú um þessi Jól, mjøg høfum þó opt misbrotid, en mikil heilsa oss skér, miklum vér því þitt módur géd, minn Jesú! audmjúker, mikil furdu verk, mikil nád, mesta hjálprædi oss er tjád, ó! hvad er þó sú ímindan, oss sem ad veitist nú, hjá eilífrar gledi alskodan, algjørlega sjest þú, lát oss ei hennar verda van, voldugasti Jesú!

---

Jesús er kominn sinn hann fljótt, fyrst hann þig heimsækir, bjód honum gisting nú í nótt, og náqvæmar vidtektir; leif honum hjarta húsin þín, hreinsud med blódi hans, géf honum tára gledi vín, med greidvikni

kjærleikans, ef úthýsir honum, eilíft bann, yfir þig fellur, veslæll maður! meðtakirð' hann þá muntu fá, mottulinn réttlætis, ef hann þér giftir ætíð hjá, einkis fer góðs á mis, hann lofar þér sig sjálfann sjá, í sælgjæti réttlætis.

---

Margur veit eg að mænir nú, með trúar augunum, uppá þig, góði Guð Jesú! glaður á Jólunum; útbreidda trúar armana, að taka sig að sér, og hjartans áfstraka hvarmana, hugganði sig í þér; í þeirra tölu aumaster, ó Jesú góði! komum vér, í trúar vorn þig takandi, tárin vor laugi þig, viðkvæma hjartað vaggan sé, voðir, bæn auðmjúklig, kjærleiki, ljós ókulnandi, koss, trúinástúðlig.

---

Fögnum nú Jesú frelsíngjar, fögnum nú kristnir menn! fögnuður Jesú fæðíngar, fagnandi géfst oss enn, fagnaðar hátíð friðri á, fagnandi séum vér, fagnaðar boðskap fyrst oss tjá, fagnandi Englarner, fagni nú hvør ein friðkeipt sál, fagni vor hjörtu, hugur, mál, fagni nú allt hvað fagna kann, fagni himin og jörð, fagnandi þeckum fögnuð þann,

fagnandi Drottins hjørd, fagnandi príſum Frelſarann, fagnadar med lofgjørd.

---

Jacobs ſtigi á Jólunum, Jeſús oſs veitu hér, um hvørn vér nú í andanum, uppſtígum Gud fyrir, trúin vor ſéu trøppurnar, til himins liggjandi, greidendur vegar Guds Englar, gángrúmid kjærleiki, allir kraptar þeſs orki beſt, ad þeſsi reiſa vel luckiſt, ó Jeſú! drag oſs eptir þér, aflvana ferda menn, ó Jeſú! þeſs er þurfum vér, þín veiti miſkun enn, ó Jeſu! bædi á himni og hér, hefjiſt þín vegſemdin.

---

Dalverpis liljan dýrdlega, Drottinn vor Jeſús ert, ofanſtíginn í eymdina, ad vort hjálpraedi ſért, þeſsarar lilju lífs kraptin, lén oſs á Jólunum, ſvo íbúdardalur ſéum þinn, ſorga í bólunum, hjartans dalverpid hýſi þig, hjørtun fyrir þér opni ſig, hjartnanna rós ſvo heitir þú, í hjørtunum ilmandi, hjartad þig einann elſki nú, af øllu hjarta þad ſé, í hjarta þínu oſs hyl, Jeſú! hjørtun þig vardveiti.

---

## b) Á Nýári.

Allir dagar sitt eiga qvøld, ár, vikur, mánuder, lídur svo tídin ø'd af øld, inn t'l þess heimur þver, að lokum komid ár er eitt, enn fyrir Drottins náð, aví! vér høfuim illa breytt, og glæpum nidur sád, en hans blessada ástar þel, allt gjørdi oss til besta vel, hvad skulum gjalda Gudi á mót, gjædsku og þollund hans? á hann trúum med yfirbót, afleggjum synda fans, og bidjum líknar innst af rót, í nafni Lausnarans.

---

Enn er oss géfid árid nýtt, eilífi Gud! eg bid, géf oss þad verdi gott og blídt, géf oss þitt hjálpar lid, géf þú oss bjørg og blessa ávallt, burtrek allt kíf og tál, géfdu oss frid og farsæl allt, fyrir vort líf og sál, géfdu þig háleitt heidrum vér, heilagi Gud, sem verdugt er, géf oss þig lofum lifandi, lífs med réttum føgnud, géf oss þig dýrkum deyandi, dýrd þín sé margføldud, sídan um eilífd sýngjandi, sannheilagur vor Gud!

---

Alls góðs streymandi uppspretta, afbanna

Fadir hár! fyrir Jesúm vorn Frelsara, farsæl oss þetta ár, ársins umlíđna alla synd, umsnú í réttlæti, ársins inngengna ádagurs mind, yfirklæđ gleđinni; ára tala vor ókomin, ó Jesú! sé þér befalin; en medan løfum lífs á grund, leid þú og stjórna oss, þegar oss særir sorgar und, sikra gjørvallann kross, svo eptir daudann þinn fáum fund, fegursta nýárs hnoss.

---

O þú sálnanna elskarinn, eilíf gæđskunnar lind! á þessum degi umskorinn, íklæddur vorri mind; dreirinn sem af þér dundi þá, daudvona saudi þín, blessadann lát þú breidast á, bænina heyrdu mín, fyrirgéf þú ad fetum vér, feril glæpanna burt frá þér, æ Gudt oss til þín aptur snú, ydrunar fyrir tár, blódfadminn móti breid oss þú, beidist þess trúin klár, í þínu nafni, ó Jesú! upp byrjum svo nýtt ár.

---

O Jesú! sem fyrir auma þjóđ, umskéra hold þitt létst, hreinsi oss vel þitt heilagt blóđ, og hjarta vort þvoi best, í blessadann ljúfa blódfadm þinn, brotlegir skrídum nú, blessadur sálna brúđguminn, burt hrek

ofs ecki þú, blessad nafn géfid prísvar þér, þad er vort blessad sielsi hér, sidar simament fastasta, frelsi, hjálp, qvittun, hlíf, á ári þessu inngengna, ó Jesú! hjá ofs blíf, svo blíct fyrir nafn þitt blessada, blessist vor sál og líf.

---

Kóróna ávid, Kristur minn! med kroptugri blessun þín, eilífa sálna svolunin, og sadníng sem aldrei dvín, umskér vor hjörtu, Herra hýr! med heilags Anda nád, þitt nafn vegsamist, Drottinn dýr! dýrd sé þér ætíd tjád, andans hræríngu, ó Jesú! ætíd géf ofs og rétta trú, umvef ofs þinni elsku mest, eilífur, tignar hár, þín hægri hönd ofs hjúkri best, og hreinsi vor gjörvöll sár, blód þitt, Jesú! ofs ádreifist, eilíft géf ofs nýtt ár.

---

Forgéfins þú mér, gódi Gud! géfur lífs enga tíd, veit mér þinn krapt ad velgiundud, vitska mig ár og síd, leidi hvört fótmál, lífsins stig, loknum þá árs er hríng, yfirvegandi þecki þig, og þína nád allt um

kríng, gefðu mín athøfn vandist vel, með vísdóm og eðla hjarta þel, svo framt þú kallar, Faðir! mig, fyrir allsherjar dóm, að syndanna ydja saurngleg, seki ei barn þitt tóm, heldur síknsaka heiðri þig, með himinsins dýrðar róm.

---

Jesú umskurnar svíði og sár, sé oss ein hressíng blíð, þetta eptirkomandi ár, og alla lífsins tíð; ásamt hans nafni verndin vor, veri og skjoldur trúr, til blessunar vor oss vøkvi spor, hans varmasti benja skúr, og allar sléttir innsiglist, umskurnar sári Jesú best, í blóði hans vor bíðdug sár, blæðandi svali sér, þegar á dinur dauðans fár, og dvína kraptarnir, hreppi þá friðar eilíf ár, allir rétt-trúaðir.

---

Afskifað høfum eitt ár vér, undir Guðs hlífðar skjøld, og nú uppbyrjum annað hér, við ytsta heimsins qvøld, Ísraels gleði, andar ljós, innflýum til þín nú að vorrar ésku eblir rós, í rétt lifandi trú; Jesú umskurnar døggin dýr, drjúpi á oss þá mæðan lýr, nafnið hans frelsi nauð-

stoddum, nú veri þetta ár, fridar rík svølun freistudum, fárádum vegur klár, dýrdar fullt lífid deyendum, daudans mikjandi fár.

Árid fagnadar oss þú géf, árid helgunar þó, árid farsældar ecki tef, á himni, jørd og sjó, árid sem færir engin slis, árid lífs betrunar, árid góds fridar innbyrdis, ár synda qvittunar, þacklætis ár vid þurdan kífs, þolgædis ár í naudum lífs, hressíngar ár þeim hugmæddu, hjálpar ár naudstoddum, lækníngar ár þeim lemstrudu, lausnar ár herteknum, svølunar ár þeim sorgmæddu, sældar ár deyendum.

## c) Á Páskum.

Ó Jesú! hjartans unun fríd, upprisa og lífid manns, sálar hugsvølun blessud blíd, blómstur ódaudleikans, þú sem harmqvæli, hryggd og bøl, hefur þolad á kross, Djøful sigrandi og daudans qvøl, dýrdligur fyrir oss, unn oss jafnan í anda hér, upp ad rísa med sjálfum þér, svo vér, grafanna fylsnum frá, framleiddir dóms á tíd, sigurhross

megum sóma ná, sorga gleimandi hríð, með eilífu Páska-haldi hjá, heilögum Engla lýð.

---

Upprunnin dýrdar er nú sól, eptir formyrkvun sín, fæ eg því eilíft friðar skjól, fánge'sið mitt þá dvín, æ! hvað sorglig var ásýnd þín, á pínum píslar dag, æ hvað gledur það öndu mín, að sjá þinn dýrdar hag, lík þitt gafstu til lausnar mér, lífs og dáinn mig eigðu hér, hjá föður þínum fékkst mér grið, forðæmdur þá eg var, heilags Anda mér lagdir lið, líka þá vissi ei par, veittu mér eilíft fylgi og frið, frá hrygð til vegsemdar.

---

Sætasti Jesú Son Guðs kjær! sálar unnustinn minn, lífsins eilífi ljóminn skjær, lifir nú upprisinn, að afstaðinni sorg og sút, sem hann leið heimi í, búinn er nú að borga út, brot mín svo eg er frí, líkamans kraptar, líf og sál, losi þig sjón, heyrn, vit og mál, ó Jesú! géf oss öllum nú, að upprísa syndum frá, í þínum krapti, ó Jesú! alla sigrandi þrá, bið fyrir mér, svo bili ei trú, blessuðum Guði hjá.

---

Réttlætis sólin eilíf er, úr skýum dauðans hýr, öllum Guðs börnum eilíf hér, upprunnin fögur og dýr, sigurvegarinn sæll Jesú! sjálfur leist dauða frá, frumburður dauðra frægstur nú, friðar höfðíngi sá, sigraði Djöful, synd og deyð, sitt fólk leysti af allri neyð, full þackað aldrei fáum þér, Frelsarinn Jesú kjær! tídt þó að mættum tala vér, túngum Englanna nær, virðíng, makt, speki og valdið ber, vegsemd og lofgjörð skjær.

---

Blessaður sælna Brúðguminn, brunnurinn elskunnar, heilagur kom í hjartað inn, heilsu gief brúðinnar, upp eftu risinn elskan skjær, uppríslu nú í mér, uppvek mitt hjarta og á hræri, með ást á móti þér; þér sé nú eilíf þackargjörð, af þinni kristni hér á jörð, að þú keyptir oss qvölum frá, krossfesta elskan mín! þú létst oss auma finna og fá, friðland hjá Föður þín, svo heilagt þér sýngum Hósianna, í himneskri dýrð sem skín.

---

Sigurvegarinn sæll vert þú, sálar brúdguminn trúr! rétlætis sólin runnin nú, randa hafs djúpi úr, pínu og daudans, sem ad sér, sál. þinni þrengdu ad, því er mér nóg ad þú lifer, bad sær mig og lífgad, eckért sær syndin unnid mein, engin fordæmt lögmálsins grein, hvar er nú máttin helvítis? hvar daudans broddur sár? atquædi eru unnin þess,| afþurkud hrygdar tár, sigurvegara sigur vers, sýngjum um eilíf ár.

---

Daudans úr hafi aptur oss, upp er lífs runnin sól, sem ad ádur í qvöl á kross, klárann sinn glansa fól, syndar daudans og Satans vold, sigrad féck hún og stitt, áfallin þúngu Adams gjøld, urdu svo géfin qvitt; fagni því hjarta, fagni mál, fagni vor endurleystá sál, fagnandi lofum Frelsarann, fagnadar hátíd á, fagni hvør sinni fridgjef mann, fagnadur klíngi sá, fagnadar uns í fridum rann, føgnum vér Gudi hjá.

---

## d) A Uppstigníngar dag.

O Jesú Guds Son eingétinn! allir þig lofum vér, heilagur sigurhofdínginn, heidur

og dýrd sé þér, uppstíginn himna ertu til, Endurlausnarinn kjær! aptur kémur annad bil, eflaust því trúum vær, lát þú oss mæta miskun þá, minnstu ei vorar syndir á, fyrir þad harda hel'jar fár, hér sem leitst fyrir oss, beiska hrigd, skjálfta, bænartár, bønd, svipur, nagla, kross, bitrastánn dauda, blódug sár, og blessadann kreira foss.

---

Í dag er Kristur uppstíginn, aptur í himna rann, í dýrd síns Fodurs inngenginn, eilífur Gud og mann! hann upplauk fyrir oss himininn, hvør aptur luktur var, svo vér fríir frá syndunum, sælu víst hefdum þar, fyrir oss bidur Frelsarinn, Fødurinn, Jesús Herra minn, og keypti oss fagrann fridarstad, farsælann himnum á, svo eptir dapurt daudans bad, Drottinn vorn fengjum sjá, sem oss hefir lífid útvegad, um eilífd, Amen Já.

---

## e) Á Hvítasunnu.

Ei fæ eg sannleiks andinn kjær, uppreiknad gjafir þín, ómetanlegar eru þær, øllum skilníngi mín, þú géfur hjartans hægd og

kird, huggun og þolgjædi, kallar, upplýsir, helgar hyrd, Herrans á jørdunni, réttann kjærleika ríkka þú, rætir Guds elsku, von og trú, arfleifdar pantur útvøldum, upptendrar bænrækni, sannfæríng heimi setur um, synd, dóm og réttlæti, ver øllum sálar vandrædum, vegsemd þín eilíf sé!

---

O Gud! sem he'gann Anda þinn útsendir himnum frá. Postulum 12 í sama sinn, sá er uppfrædi þá, ýmsum túngum þá tala létst, tignar stórmerkin fín, vort túngu mál med blessan best, beg: si mildin þín, anda bænar oss inngéf þú, anda nádar oss sendu nú, vondum ordum oss vernda frá, vor géf þú unun sé, um heilagt nafn þitt, í heidri ad tjá, med hjarta og málfæri, allt þad sem draga anda má, einn Gud þig vegsame!

---

## f) A Trinitatis hátíd.

Þrenníngu hátíd haldin er, hei'øgum Drottni stór, hann skulum dýrka og heidra vér, med heiløgum Engla kór, híngad sendi Gud huggarann, heilagann Anda sinn, í hvørs kristins manns hjarta rann, heiløg kom ástgjøfin,

yfir Postula er kom fyrst, á Hvítasunnu í hægum gust, hann biðjum ætíð hjá oss sé, af hjarta eg það kýs, Herranum vorum hærsta sé, heiður, lofgjörð og prís, og sigur jáfnan syngjandi, í sællri Paradís.

## C) Helgidaga-vers.

### a) Á Föstu.

O Guð! lát helgann anda þinn, oss veita styrk og náð,, svo hugleiðum í hvört eitt sinn, það himneska gjæðsku ráð, þá svo elskaðir aumann heim, útgafst þinn kjæra Son, til endurlausnar öllum þeim, sem á honum hafa von, historíu þínu Herrans því, hjöfum dagliga minni í, fullnaðar bót hann fyrir oss vann, friðstilltist reiðin hörð, tínda sauði svo aptur fann, sinni lið veitti hjörð, með Föður og Anda heiðum hann, í hæsstri þackargjörð.

Lof og dýrð sé þér, Lausnari minn! leiðstu hér dauðans pín, krossfatm blessaðann breið þú þinn, blíðt yfir sálu mín, sætasta síðu

sárið þitt, sé nú mitt griða hús, hvíldar staðir sál og hjartað mitt, hjarta blóð þitt Jesús, í þínum faðmi útbreiddum, unn mér að blífa í heiminum, í þínu faðmi að enda líf, upprísa í faðmi þér, í þínum faðmi eilíft líf, af miskun gef þú mér, um eilífð svo hjá þér alla blíf, aldrei sú sæla þver.

## b) Á Skírdag.

Herra Jesú! vort hjálpar ráð, hæðst sé þér virðing veitt, andligt bordhald þín eilíf náð, oss hefur nú tilreidt, heilagt hold þitt og blessað blóð, við bord þitt meðtökum vær, ó hvað þú elskar auma þjóð, ó Herra Jesú kjær! andligt húngur oss auktu hér, andliga svo að mettumst vér, andligt taunsak lát anda þinn, inn hjá oss planta nú, andlegt líferni í hvørt sinn, ydrun og rétta trú, blessaði sálar brúdguminn, bænheyr oss ó Jesú!

## c) Á Fostudaginn lánga.

Þó fostudags lánga líði eg sorg, lúinn í eymdardal, heppnast nóg gledi í himna-

borg, og heilagra dýrdar sal, Páska dagauna prýdi og lýst, prófa mun eg hjá þér, hærst nefndi Gud og Herra Krist! heidur sá alda-lei þver; alla sorg bættir útlagans, um eilífd skínaudi í dýrdar krans, þar mun eg lofa lidsemd þín, Lausnarinn hjarta kjær! nafns þíns hrós sýngi sálin mín, sífellt þá hrygdin slær, láttu mig vera, líknin fín, lífs og daudann þér nær.

---

Föstndags qvöld þá komid var, Kristur til grafar hné, og hvíldist frí af þrautum þar, þángad til hann uppsté, á mildri Páska morgun stund, meklugum sigri med, og gledi-fullri gjædsku lund, gafst oss þá herfángid, lát mig vel bera bidi mín, blessadi Herra! ad dæmi þín, gröfin verdi mitt svefnhús sætt, sálina tak ad þér, er þá allt heimsins bölid bætt, blessunin eptir fer, vid engu sídan íllu hætt, upprisan glød þá skér.

---

## f) Á Bænadag.

Voldugi Fadir! vernda þú, vors Kónúngs hásætid, haldt honum æ vid hreina trú,

hans ríkjum veittu frið, stirkur þíns anda stýrði rétt, stjórnendur kristninnar, sé hvor að lifi í sinni stétt, sem þitt boð útvísar, varna stirjöld og villuróm, við haldtu þínum kristindóm, heilaga trú og hreinann sið, helsting Andskotans megn, blessa vort land og byggðar lýð, bistur oss aldrei hegn, heimleið þitt fólk í himna frið, heims alla mæðu gegn.

---

Himneski dýrðar Kóngur klár! Kóng vorn blessaðu nú, í rósemi og farsæld, Herra hár! hans daga fjölga þú, vertu hans hlífð og vernin hrein, vernda hann allt um kring, eins og þinn eigin augastein, eða þinn signets hring, leið hann við þína hægri hönd, hönd þín velsigni hans líf og önd, eðliger þinna Engla múr, umkringi hans tignarstól, vertu hans ljós og vegur trúr, vígi, líf, skjöldur, sól, héðan þá leiðist heimi úr, hans vertu eilíft skjól!

---

## g) Á Sunnudögum.

Vikunnar tíðin endud er, eilífi Faðir kjær! lof, æra, dýrð og þökk sé þér, þú sem oss

miskun fær, forláti oss þín Föður náð, í Freisarans Jesú nafn, óþakktætið og ú́llsku sáð, og allra misgjörða safn, uppbyrjast vikan önnur hér, ó Drottinn! kom og líkna mér, blessa vor efni, björg og fé, blíðasti Jesú minn! erfidis söfn og atburði, öndu, líf, brjóst og sinn, lífs vöku stund að liðinni, leið oss í himininn.

---

Heilagi ljóssins Herra hár! er hvíldar dag innsetter, helgunar brunnur hreinn og klár, helga oss nú í þér, hvíl þig nú, ljúfi Herra kjær! í húsi vors hjarta ranns, einninn géf líka allir vær, í þér hvílumst til sanns, bless oss með þinni blessun nú, blessaði Herra minn Jesú! eilíf þín blessun alla tíð, yfir oss blessuð sé, á öllum lífstundum árla og sîð, í inngángi og framgángi, innsigli'st oss sú blessan blíð, bæði í vöku og svefni.



## Annar Flockur,

innihéldur

## Qvöld- og Morgun-vers.

---

### a) Morgun-vers.

Lifandi Jesú! lof sé þér, lidin er þessi nótt, vel hefir yfir vakad mér, þín voldug Engla gnótt, svo hefir eckért sakad hér, svaf eg í gódum frid, fyrir þad elskan öll þér ber, mitt eilíft hjá prædid, einninn daginn sem upp ljómar, allann himin til farsældar, eg er bidjandi, einn Gud! þig, adgjætslu veittu mér, annars ei óhætt er um mig, eg því á reiki fer, Guddómsins þrenníng gøfugleg, góð eining stjórni mér.

---

Lofadur sértu gódi Gud! gøfgi þig önd in mín, ad eg nú heilbrygd uppvøknud, er fyr-

ir miskun þín, heilsugjafarinn hefir minn, heljar mér forðað stig, andi minn skal því æ hvört sinn, í honum gleðja sig, allt það sem hefir andardrátt, útbreiði hans dýrð í hvörri átt, hels þegar stundin hætt að ber, hjálpi mér kraptur þinn, blóðdropar þínir blessaðir, bæti öll misverkin, leið mig síðan með ljúfumi þér, í lífs æðsta fögnuðinn.

Ljósanna føður lofgjørð sé, liðin er þessi nótt, hans undir vængja hjálpræði, hefur mér orðið rótt, í Guðs nafni, eg upprís nú, og byrja þennann dag, innrættu hjá mér, ó Jesú! orð þitt, enn líssins hag, virðstu að blessa veikann minn, villa lát mig ei djøfulinn, af þínum vegi, elskan góð! andvarpið heyrðu mitt; fyrir þín sár og blessað blóð, brotin géfðu mér qvitt; leið mig af dauðans dimmri slóð, í dýrðar ríki þitt.

Upp er nú runnin sólin sæl, sæl elskan, Jesú klár! klár sem fyrr undir hvarf vorn hæl, hæli vor eru þín sár, sárkaldt þá dauðinn bakar bað, baðið þíns unda flóðs, flóð af syndanna þvoi það, þaðan til æðsta góðs, góði

Jesú! þitt legdu lid, lídnum gef, þú þinn ástar frid, fridarins Gud sem þjónar þín, þ'num hjá lambsins trón, trónanna sveitin skjær hvar skín, skín þar Júda kyns ljón, ljóni því æra sýngist sín, sínum med føgrum tón.

Lof, dýrd og æra þíd sé þér, þrenníngin guddóms há, ad þínir virdtust Englarnir, oss í nótt vaka hjá, bidjandi framar blessun þín, brot synda fær í lag, heillasøm nádar høndin þín, hjúkri mér nú í dag; svo áform mitt og athafnir, allt framkomi svo þóknist þér, um allar stundir æfinnar, unn þú mér nádar þín, blessadir Jesú blódstraumar, blædi á sálu mín, eilísi Drottinn allsherjar! oss leid í dýrd til þín.

Dagur nú lýsir, Drottinn kjær! dimman er horfin svørt, rennur upp sólar rodinn skjær, réttlætis sólin bjort; ljómi þíns anda lýsi mér, ljómi upp hjarta og sál, samfara verdi svo sem ber, sinni, hjarta og mál, þída þér færi þakkargjørd, þrenníngin fignar stór, heidri þig menn, himin og jørd, og heilagra Engla kór, allt þad sem hefir andardrátt, eilífann Drottinn

lofi hátt, allt sem heitir og allt hvað er, allt það sem hræraſt má, ljúflegaſt færi lofið þér, lambið Guðs himnum á, og eilíft lof sem aldrei þver, Amen, Halelúja.

---

Drottinn! þú géfur daginn enn, af dásemd þinni að sjá, oss sem að erum aumir menn, ílla margt gjörum tjá, láttu þíns anda lífsins veg, leiða oss enn í dag, þér svo að verði þóknanleg, þjónkan og vinnulag, virðstu að geyma oss voða frá, vondu sem kann að falla uppá, breiða veginum bæg oss af, blessaður Guð Jesús! leiði mig sá sem lífið gaf, ljúfur og náðar fús, í gégnum dauðans dimma haf, dýrðar í sælu hús.

---

Í Guðs nafni sál mín gaungum nú, glöð þessa morgunstund, til Sonar Guðs í sannri trú, sérhvor hans blóðug und, opin sténdur en ecki læst, á eg svo von á þér, dásamleg þrenning dýrðar glæst, dýrkist þitt nafn af mér, sárin þín lækni sárin mín, svali mér Jesú blóðug þín, himneski Faðir! höndin þín, hjástoð mín veri í dag, andinn þinn hreisi öndu mín, og allann

minn blessi hag, leid mig svo þegar lífid dvín, í ljóss = barna samfélag.

Miskunsamasti, máttugi, minn Gud fullur af náð! eg aum mannéskja medkenni, mildi og hjálpar ráð, á morgni þessum er þú mér, allt frá módurlífi, til lífs og andar audsýndir, en nú framhaldandi; ecki kann eg ad upptelja, alla þína velgjørnínga, ønd mín þó dáist ad því mest, fyrir upphaf heimsins þú, elsku þína auglýsast létst, er þad mín lausnin trú, þegar krossdauda borgun best, blódid var míns Jesú.

Í Jesú nafni uppstadinn, eg byrja þennann dag, eilíft lof sé þér eníng þrenn, allann minn lífsins hag, annast hefur þín nád í nótt, neyd og ólucku frá, vardveitti mig þín gæsku gnótt, greidist þér vegsemd há, því vil eg nú af hjarta hér, heidur og lofgjørd sýnga þér, ó Drottinn! láttu auda þinn, efla mig þar til best, virdstu ad styrkja veikleik minn, ad vanda þinn lofstýr mest, og þar um tala sérhvørt sinn, svo ad þér velþóknist.

Eg kalla, Drottin dýr! til þín, dags þessum morgni á; líknaraugum þú lít til mín, og lát mig miskun fá, virdstu mér aumum leggja lid, leid mig af glæpa slód, seig þú mig qvittann syndir vid, Sonar þíns fyrir blód; ó Drottinn Jesú, minnstu mín! miskunar verndin blessud þín, yfir mér standi mild og merk, medan eg lifi hér, heilagra Engla hlífdin sterk, hafi nú gát á mér, svo munu öll mín vikuverk, verda blessud í þér.

Vardveittu mig og mína í dag, minn Gud! frá allri pín, veit þú oss hagstædt vedurlag, velsigni oss høndin þín, lát oss í vorri lifa stjett, til lofs og dýrdar þér, og svo framgánga ætíd rétt, eins og réttkristnum ber, en þá vor hérvist enda fær, og heiminn qvedja skulum vær, géf oss þá, Drottinn! himneskt hnoss, høndla í réttri trú, fyrir blessadann Jesú benja foss, bæn mína álít þú, fridur Guds sé med øllum oss, æfinlega og nú.

Horfin er nætur dimman dock, dagsljósid gledur menn, hljóti vegsemd, heidur og

þøck, hálofleg eining þrenn; oss hefur skýlt með ástar væng, afvendað neyð og pín, verum glaðir gengnir af sæng, oss geimdi miskunn þín, veri í dag vort verndar skjól, voldug réttlætis blessuð sól, hjálpi oss øllum høndin hans, og hjúkri líf og sál, hug vorn hefji til himna ranns, hrigðar þá dreckum skál, innleið síðan í Engla krans, oss þegar þykir mál.

---

Gefi oss øllum góðann dag, Guð Faðir á himna trón, allrar kristninnar allann hag, annist hans fyrirsjón. Englarnir beri børnin hans, blessuð á høndum sér, hér áfram inn til himna ranns, heim þegar lífið þver, geym oss, Drottinn! á brjóst og bak, blessandi sérhvört andartak, ó Jesú! vertu øllum allt, alltíð fyrir þinn deyð, hvørt sem vér þol, um heitt eða kaldt hjúkri þín mildin greið, hvørt sem vér smøckum súrt eða salt, sikra þú alla neyð.

---

## b) Qvøld-vers.

Dagurinn liðinn er nú enn, enn nætur byrjast tíð, tíð dagsins fyrir þøck sé þrenn,

þrenníngin Guddóms blíd! blíd af hug hjarta og munni med, medlætis fyrir hag, hagqvæmt Guds nádar gladdi géd, géd vort sorgfullt í dag, dagur vors lífs nær úti er, er þá vort líf, minn Gud! í þér, þér- selum oss í nótt enn nú, nú qvøldar, vertu hja, hjá oss í voru brjósti bú, bú- stad þinn himnum á, á efsta degi, ó Jesú! unn oss þér vera hjá!

---

Dagur er lidinn komid er qvøld, qvøldar svo æfi stund, stund, dagar, vikur, ár og øld, øld bodar daudans blund, blund þann síd- asta, Herra hýr! hýrann oss géf þú hér, hér þá líf stundlegt frá oss flýr. flýum þá til þín vér, vér høfum þar á trausta trú, trú- udum bírt ei skúfir þú, þú sem fyrir oss líf þitt létst, létst oss svo. hreppa frid, fridþægdir fyrir blód þitt best, best sættir Fødurinn vid, vid þad þín dýrd margfaldist mest, mest sé þér þacklætid.

---

Dagur er lidinn komid er qvøld, qvøldar svo æfi manns, mannsíns lífdagar, ár og øld, øld burtlídur tímans, tímanu ber oss ad vakta víst, víst medan frambýdst nád,

nádinni svo vér svíptumst sist, sist skyldi slíks vangáð, gádu Jesú! oss øllum að, að vér mættum í hvørjum stað, staðfast trúa þig einann á, á meðan lifum hér, hér þegar heimi førum frá, frá mæðu leysumst vér, vér gef ødlumst í sælu að sjá, sjá þig Guð! um aldir..

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar svo æfi skeið, skeiðar í burt sú auma øld, øldúngis kasin neyð, neyð vora, Drottinn! sjálfur sjá, sjá oss í vægð og náð, náð þína treistum eflaust á, á þig stendur vort ráð, ráð, hetja, kraptur þá ert þú, þú Drottinn! þeim sem lifa í trú. trú vora á efstu styrk þú stund, stund sú oss hagar best, best sé þá Jesú! opin und, und sálar lækníng mest, mest kjósum vér þana friðar fund, fundið Guðs anglit sjest.

---

Dagur er liðinn komið er qvøld, qvøldar svo æfi tíð, tíð lífs er réttnefnd eimda øld, øldúngis sorg og stríð, stríð hvørt með æfi degi dvín, dvínar øll sorgin þá, þá eilífðar dagur skjær oss skín, skínandi himnum á, á jørð sorgbitnir veinum vér, vér sem þá føgnum glað,

værer, erfidi vort er þrotið því, því er oss hvíldin vís, vís allra gjæða nægðin ný, nýanu þá hefjum prís, prísandi Drottinn aftsemd í, í sællri Paradís.

---

Þessa dags er nú komið kvöld, qvöldar svo æfi tíð, tíðin svo líður öld af öld, öldúngis burt um síð, síðasti og fyrsti vor þú ver, verndarinn Jesú kjær! kjæra gjörandi' og þecka þér, þér svo að lífum vær, værar géf þú oss náðir nú, nú vil eg biðja, ó Jesú! Jesú þín blessuð hjálpar hönd, höndli við oss í náð, náðar hyrtíngar víki vönd, vönd dagsins yfirráð, ráð, Faðir góður! allra önd, önd vor þér lof fær tjáð.

---

Þessi dagur á enda er, er skyldt Guð lofum vær, vær gjörum, Drottinn! þackir þér, þér sem oss verndað fær, fær þú oss öllum líkn og lið, lið Engla verndar oss, oss hefir Son þinn fengið frið, friðkeypt á hörðum kross, kross hans vort merki sigursætt. sætt veri og hlífðar vopn ágjætt, gjættu vor allra nú í nótt, nóttin svo farsæl sé, sé oss og verði rétt vel rótt, rótt í Jesú faðme, faðmi

nádar oss umgird ótt, óttalaust hvør sosi.

---

Þessa dags stund á enda er, er komin nætur tíd, tíd æfinnar svo fljótt burt fer, fer í hønd dauda stríd, stríd fyrir Jesú þýngsta þitt, þitt veittu fullting mér, mér svo nær andlát mætir mitt, mitt frelsist líf í þér, þér lidinn þacka eg, Drottinn! dag, dag nádar hvørn og greiddann hag, haga svo þaunkum mildur mín, mín verdi synd af fægd, fægd í blódundum þíðum þín, þín er miskunnar nægd, nægtin gjæda hvar skédur og skín, skíni þér ædsta frægd.

---

Vak hjá oss, Herra! komid er qvøld, qvøld myrkri þreyngir ad, ad flýa undir þinn skjól og skjøld, skjøldur þinn verkar þad, þad megum sofa rétt í ró, rósemd veit, Drottinn minn! minnuinst vors dauda og þenkjum þó, þó sofi líkaminn, inn í tjaldbúdir eilífar, armædulaus mun vellíst þar, þar verdur himneskt sælan sjen, sjen þrenníng tignar há, háleita Jesú blód og ben, ben synda grædir þá, allir sýngjum æ amen, amen, dýrd, Hosanna!

---

Sígur dags húmid yfir ótt, ótt tekur qvølda hér, hér er ei nema sorg og sótt, sótt dauda medfylgir, fylgir Guds børnum qvøl og kross, kross þjádum líkna þú, þú sem leidst fyrir alla oss, oss vægdu, minn Jesú! Jesús Guds Sonur, minnstu mín, mína ønd lángar nú til þín, þín blessud rauda líffins lind, lindin svølunar best, best hreinsi vora sok og synd, syndugir qvitterist, qvitterist gjørvøll mannleg mind, mind Drottins vegsamist.

---

Sólar ljóminn nú tregst frá dýr, dýrmæti Jesú minn! minn slirkur vertu og hjálpin hýr, hýr sálar brúdguminn, inngacktu í mitt hugar hús, hús þad skal tilreidt þér, þér vileg bjóda fridar fús, fúsliga vist hjá mér, mér þykir qvølda fardu fljótt, fljótt kémur ad mín daudans nótt, nótt géf þá, Jesú! sosi' eg sætt, sætt drykki mig þitt blód, blód skuld mín upp þá rjód er rætt, rætt af vid tára flód, flód þad synd mína best fær bætt; bætt sé mín glæpa flód!

---

Dags ljós er frá oss numid nú, nú skyggir húmid á, álít oss blessud þrenning þú,

þú vak í nótt oss hjá, hjástoð vor sért en hardt ei hefn, hefnd mýktu gjæskn or, or= þjáúm blessa sæng og svefn, svefn værd róliga gjør, gjør þitt fólk verdi af miss= un mett, mettad lífsstundum deyi rétt, rétt= lætis sólin skíni oss skjær, skjær sem er Herr= ans dýrd, dýrdarlegir þá verdum vær, vær komnir þar í hyrd, hyrdir hvor odrum fagnad fær, fær Guds lof aldrei rírd.

---

Dagur er lidinn nálgast nótt, nótt sídsta dregst svo ad, ad daudans púnkti færist fljótt, fljótt rennur glasid þad, þad skal minna mig ætíd á, á medan lifi eg hér, hérvist= inni snart fer eg frá, frá því sem stundlegt er; er eg girnist og þreyi því, því ad nú qvoldar heimi í, í forsjón þína mig, Gud! eg géf, géf þú mér andláts ró, rólega eg og sætt því sef, sefur øll mædan þó, þó vaki sálin utan ef, efalaust hjá Kristó.

---

Vertu hjá oss, ó Herra! hér, hér lídur dag= inn á, á þig kollum nú, vor Gud! vér, vér bidjum sért oss hjá, hjá oss veri þín hei= løg hønd, hønd sú sem fordar neyd, neyd=

vist, fridur eilífur fadmi oss, fyrir vorn Jesúm Krist.

---

O Jesú, Jesú! eg þig bid, Jesú! hjálpadu mér, ó Jesú! kom og legg mér lid, lífsstundin mín nær þver, taktu þá ad þér, málid mitt, minn sálar grædarinn! leid mig svo inn í ljósidþitt, lifandi Jesú minn! hédan glatur og fús eg fer, Frelsarinn Jesú! tak vid mér, forleingir mig ad finna þig, fel mig í sárum þín, lát mig ei kanna qvala stig, qvitta øll brotin mín, líknsami Jesú! leid þú mig, í ljósid sem aldrei dvín.

---

Allra sídast þá á eg hér, andláts ad gégna blund, sé þá, minn Gud! fyrir sjónum þér, Sonar þíns blódug und, fyrir mig lagdi lausnargjald, látinn þá hékk á kross, géfur mig fríann Guds á vald, grædarans unda foss, mig leidi hans farsæl fyrirbón, fram fyrir lambsins dýrdar trón, ó Jesú! kom og ei vid bíd, innleid þú sálu mín, ó Jesú! kom og skjærum skríd, skrúda

réttlætis þín, ó Jesú! sálar unun blíð, útvøldum mér þá skín.

---

Allra síðast þá á eg hér, af súpa dauðans skál, vertu þá, Jesús minn! hjá mér, mína aumastu sál, Heilagra Eingla herskarinn, hjá mér til verndar sé, ønd mína flyt í faðminn þinn, fráskilda sorginni, hjartans síðasta hrópið mitt, í hjartað inngángi, Jesú! þitt, hjartans meðaumkun heitust þín, hjúkri oss veikum þá, hjartans andvorpin meðtak mín, mér skúfa þér ei frá, um eilífa tíð sem aldrei dvín, unn mér þér vera hjá.

---

Úr djúpinu eymda, Drottinn kjær! dapur eg hrópa á þig, qveinandi sképnu kom þú nær, kénndu í brjósti um mig, andlegann styrkleik auki mér, almættis kraptur þinn, holdsins þó kraptar hverfi hér, og hrørni líkhami minn, farsæla géfðu endíng á, armæðu þeirri er mig vill þjá, náqvæm þín miúkust móður hønd, minni sál taki við, hún þegar skilst við holdsins bønd, Herra

minn! þess eg bið, þá er útendud, þrautin vond, og þrotið allt mótlætið.

---

Heyrdu nú hjartans málið mitt, minn Gud! eg hrópa á þig, elskunnar blessað auglit þitt, áliti í miskun mig, útskúfa, Drottinn! ecki mér, augliti þínu frá, ormæddur qvaka eg eptir þér, andsvör blíd lát mig fá, bænheyr mig, Drottinn! bænheyr mig, bænheyrdur svo eg lofi þig, yfirgéf mig í engri neyd, adrir þó gleymi mér, umkríngi mig þín adstod greid, allt þó mér hafni hér, vertu mitt ljós í lífi og deyd, láttu mig fylgja þér.

---

Eilíft lífið mjög ækilegt, eilífur géf oss Gud, eilíf þín nádar ædsta megt, eilífann ljær fögnud, albjartir skínum eins og sól, umgirdtir rósemi, þá fyrir Lambsins stöndum stól, í stadfóstu réttlæti, tímana fram svo telja skal, tíma hvörn hér í sorgar dal, þó ad hérvistin þyki laung, þverra oll hrigdar tár, nær Guds barna heyrum gledi saung, gladir um eilíf ár, um himna dýrd-

ar heiløg gaung, hljómar Guds vegsemd klár.

---

Heilagur Guð á himna trón! hjartans eg bið af rót, þína mér veitir þú umsjón, þíð= ust með gjæsku hót, hér, meðan dvelst eg heimi í, hans vélum leið mig frá, svo að eg verði af sorgum frí, síðasta degi á, dauð= ann að þola, dáð mér sýn, Drottinn minn! láttu Engla þín, fylgja mér inní fögnuð þann, flokknum útvaldra hjá, aldrei sem taka enda kann, ellegar þverra má, þína heilaga og þig sjálfann, þar hlacka eg til að sjá.

---

Faðir vor hærsti himnum á! helgist þitt nafnið best, þitt eilíft ríki oss í hjá, aug= lýsi trúin mest, verði á jørðu vilji þinn, víst sem á himna hæð, gjæðskuríkasti Guð Dorttinn! géf þú oss dagligt brauð, fyrir= géf vora synda sekt, svo sem vér þeim oss móðga frekt, inn í freistni oss enga leið, né ørvæntingar fár, heldur frels oss af allri neyð, almættis Herrann hár, vitska, makt, speki og vegsemd greið, veitt sé þér, Jesú klár!

---

Gjædskurikasti græðari minn, Guðs Sonur Jesú kjær! huggun oss veittu hvørt eitt sinn, þá hrygð og neyðin sker, eilífa dýrð fyrir utan ef, ó Jesú! lát oss fá, ó Jesú! kom og ei við tef, innleið í sælu þá, Zebaot Drottinn! sé þér dýrð, sómi, heiður og virðíng skírð, af øllum túngum æran mest, og eilíf vegsemd klár, óðauglig þrenníng, eining best, eilífur Drottinn hár! heilagast nafn þitt háblessðist, hér og um eilíf ár.

---

Helst bið eg Jesús hressi mig, heiminn nær qveðja skal, og leiði bestann lukku stig. úr lángsømum tára dal, andlát hans blessi andlát mitt, eyðandi heljar pín, sé svo allskonar syndin qvitt, er sálina hriggir mín, í dauðans þorsta blóð hans best, brjóstinu þjáða svali mest, géfi mér síðan gleði og frið, Guðs Engla skara hjá, við sína bjørtu hægri hlið, heiminum leystur frá, mun svo allt stærsta mótlætið, mætastar bætur fá.

---

Þegar þú, hærsti Herra minn! héðan mig kallar á, géf að eg verði viðbúinn, vel svo sem byrjar þá, kraptar þó dofni

en dapriſt mál, dragi af heyrn og ſjón, hrópi til þín mitt hjarta og ſál, Herra! það er mín bón, trúar loglítinn línqveikinn, láttu ſíſt ſlokna, Drottinn minn! oll þegar mannslig aðſtoð dvín, ó Jeſú! vert mér hjá, ó Jeſú! bleſsuð áſtſemd þín, að mér beſt hjúkri þá, ó Jeſú! tak ſvo ondu mína, ollum hormúngum frá.

---

Að þig alleina er mín von, ó Guð á himna trón! og á þinn hjartans elſku Son, athuga mína bón, meðan eg liſi lát mig þér, lof ſýngja alla tíð, og ſæla úrſør ſend þú mér, ſíðan eilífann frið, að eg með þér í Engla hyrð, eilíflegana ſýngi dýrð, þitt ljúfa andlit lát mig ſjá, lofa og heiðra þig, það ſama vil eg feginn fá, ó! feguið dýrðarlig, ond mín þig lofar æíð þá, amen, bænheyrðu mig!

---

Bleſsuð réttlætis ſólin ſæt, Sonur Guðs himnum á! af miſkun þinni mín vel gæt, mig vernda illu frá, undir gæk þú mú ecki mér, af hjarta bið eg þig, hormúngin ſár þá hjartað ſkér, huggaðu aumann mig, bleſs-

adir pínír blóðlæker, besta hugsvølun veri mér, øll sú qvøl, mæða, eymd og sár, er þú barst vegna min, hreinsi gjørvøll min synda sár, sefandi hrygð og pín, veit mér loksins um eilíf ár, unun í ríki þín.

---

Nær sú aðkémur ófska stund, andar skilnaðar míns, og augum síðsta ber að blund, bresiur trú hugarins, máttvana túngu tregast mál, tekur að mínka heyrn, hold er lémagna, líf og sál, lénast ei styrkur neinn, Herrann minn Jesú! heyr mig þá, hjartað mitt lát þér vera hjá, áðreif það síðan, elskan góð, með unda flóði þín, leið þú mig rétta lífsins slóð, í ljósið sem fegurst skín, og gleðinnar sæta hørpu hljóð, hljómar við eyru mín.

---

Heiminum þegar fer eg frá, Faðir á himna trón! lát mig í friði fara þá, forðum sem Simeón, lát mig ei mæta Drottinn týr! dómi réttlætis þín, í þinni miskun, Herra hýr! hugsaðu þá til mín, fyrir þann deyð sem þoldir þú, á þínum líkama, minn Jesú! þegar mér féckstu fulla sátt, Foðursins há-

tign við, uppegnt þó hafi eg opt og þrátt, ó Guð! þitt réttlætið, af lífs og sálar øllum mátt, um vægð þig sekur bið.

---

Lífsstundir mínar leiðast mér, líf þetta er mjøg fallvalt, lífið marg vafið eymdum er, ei þolir heitt né kaldt, lífið til dauðans líður fljótt, lífshásku umgirdt þó, lífið út dregst með sorg og sótt, samt vil eg lifa í ró, af því að Kristur er mitt líf, í honum eg lifi og blíf, eg veit Lausnarinn lifir minn, líf og upprisa er hann, lífs og dauða ber lykilinn, lífga og deyða kann, til lífs eilífs mig leiðir inn, í lifendra sælu rann.

---

Eptir umliðna æfistund, innleiði Drottinn oss, í sannheilagra sælufund, svo fáum dýrðar hnoss, af er þá staðin øll vor neyð, ángist, hørmúng og pín, fyrir þinn, Jesú! dýrstann deyð, í dýrðinni þá eg skín, kórónaður við Kristí hlið, kunnandi guðligt mál- færið, ó hvað gleðilig unun er, að meiga Jesúm sjá, eilífi Faðir! unn þess mér, øðrum Guðs børnum hjá, að segja og sjálfum sýngja þér, Sanctus og Gloriá!

---

O Guð! eg qvaka uppá þig, andvarpið heyrðu mitt, álíti í miskun aumann mig, elskuligt hjartað þitt, vertu mitt skjól og verndar múr, vegur, ljós, styrkur, hlíf, forsvar, aðstoð og faðir trúr, fullnægja, yndi, líf, annastu mig í allri neyð, annastu mig í lífi og deyð, meiri legðu mig ecki á, eymdir enn bera kann, vertu mér ætíð veikum hjá, þó velkist í heimsins rann, leið mig svo, síðan sorgum frá, í sælu stað eilífann.

Andláts þá tíðin yfir mig, ó Drottinn! kémur hér, æ góði Jesú! eg bið þig, ei vík í burt frá mér, hjúkri mér blessuð hönd in þín, hjálpi þá náðin skjær, hrindi frá allri hrygð og pín, hjartans unnustinn kjær! ógn dauðans giörir sýna sig, sár=hvass hans broddur hrellir mig, enginn má hugga heims um rann, hvør mun þá veita lið? í fángimu trúar faðma eg þann, sem frelsti mannkynið, eg bið af hjartans alúð hann, ønd minni taka við.

Æ minn Jesú! það ángrar mig, allt hef eg vondsligt gjørt, en við það huggar sál

mín síg, sólin réttlætis björt, upprunnin fögur edla skjær, ertú til líknar mér, allt mitt syndagróm á burt þvær, þíns unda blód-lækir, allt mitt traust set eg uppá þig, allt hvad vondt er, skil þú vid mig, um tíma og eilífd allt mitt líf, án aflúts þjóni þér, Jesú! mitt skjól, mín heill og hlíf, hjálpa þú þar til mér, míns vidskilnadar korta kíf, Kristur! þad bón mín er.

---

Drottinn! þegar mín dauda stund, dragast vill höndum ad, géf mér í hjartad glada lund, gjætandi best um þad, eptir fylgir þar unun blíd, auga sem neitt ei sá, og ævarandi eilíf tíd, sem enginn fullgrunda má, eyra þad heyra eckért kann, allann né skilja fögnud þann, sem mín forklárud sála fær, sínum brúdguma hjá, hans blessud sidu sárin skjær, sannheilög litur á, og honum syngur ætíd nær, eilíft Hallelúja.

---

Þegar ad daudans dimmu ský, dragast yfir mig hér, sjúkdóm líkaminn særist í, sálin stynjandi er; Satan ákjærir, syndin mörg, samvitsku skurlar frekt, enginn fær

veitta bót né bjørg, og bilar allt tímanlegt; í þeim naudum mér legdu lid, ljúfasti Jesú! þess eg bid, andláts qvalir og qvída þann, kaldur sem daudinn ljær, sefa fyrir þinn sárkaldann, sveita og vert mér nær, leysta slyt sál í lífsins rann, þar ljómar þín dýrdin skjær.

---

O! Jesú Kristí písl og pín, pressandi blód úr und, allra best svali øndu mín, á minni dauda stund, sætt ord er mæltir sídast þú, seinast lát vera mitt, ad eg af hjartans ást og trú, andlát minnist á þitt, af fjøtrum daudans frelsa mig, fyrir þá qvøl sem mæddi þig, leid mig sídan med ljúfum þér, lofgjørd svo verdi skírd, æfinliga af munni mér, mælt fyrir utan rírd, af Engla og manna øllum hér, eilíf þér sýngist dýrd.

---

Jesús minn kóngur klár og hreinn! qvølum mig leystir frá, hann er ecki til hjálpar seinn, helst þegar liggur á, feginn vil eg því fara til hans, fullvallt er þetta líf, útvøldum medur Engla krans, er eg þá laus vid kíf, heilagir allir Herrans þar,

hefja upp gleði raddirnar, leiðist þeim ei sú lofgjörð skír, Lausnarans stóli hjá, hjálp mér heim þángað, Drottinn hýr! dýrð þína lát mig sjá; eilíf sæla og huggun hýr, hjartað mitt gleður þá.

---

Dagur þá lífsins dvínar minn, og dauðans kémur stund, blíður og heitur blóðdropinn, blæddur úr Jesú und, signaður drjúpi á sálu mín, syndunum leys mig af, öllum þeim slegi elskan þín, í þitt blóðunda haf. friði mig þá þín fyrirbón, og flytji mig svo á dýrðar tjón, er eg þá leystur eymdum frá, og endud mín sorgar tár, ljósið himneska lít eg á, Lausnarinn Jesú klár! sigur hrós munum syngja þá, sælir um eilíf ár.

---

Heiðrum Guð Föðr himnum á, honum sé þakkargjörð, æ vill hann náðar augum sjá, út yfir sína hjörð; leiðandi hana fram með frið, Frelsarans verndin blíð, huggar, stiður og leggur lið, lífs hér um stundar tíð, tekur til vara sérhvorn sauð, svo hann ei kénni neina nauð, þar til hann kallar

saman sitt, sínar tjaldbúdir í, mein er þá úti en misgjörd qvitt, mig láttu, Drottinn! því, í þeim selskap sjá auglit þitt, og þér lof sýngja frí.

---

Nær daudinn klappar dyrnar á, Drottinn! heyr, hvørs eg bid, send mér á móti sjálfur þá, þitt signada Eingla lid, eitt sinn eg deya eflaust verd, endast þá neyd og pín, reiknast má þessi fögur ferd, ad færast í dýrd til þín, frá útlegd heimsins erum frí, Endurlausnarans fadmi í, sólunni fegri 7 sinnum, sálin vor ljómar þá, æ þeim eilífu umskiptum. unni oss Gud ad ná, sætlega vér þá samsýngjum, sætast Halelúja.

---

Kristninnar blídi brúdguminn, brúdguminn, Jesú kjær! kjær minnar sálar unnustinn, unnustinn nádar skjær, skjæra mér nádar gledi gef, gef þú mér þig sjálfann, sjálfann þig nær eg, Herra! hef, hef eg hvad þurfa kann, kann engin neyd mig þvínga þá, þá eg er búinn þig ad fá, fátækur komst í heiminn hér, hér svo audgadir mig, mig láttu ætíd þjóna þér, þér

gjæðſkan guðdómleg, líknaðu, Jesú mildur! mér, mér haldtu faſt við þig.

---

Heyr nú, Drottinn! mitt hugar tal, hjartað mitt barmar ſér, eg qvaka til úr dauðans dal, Drottinn! hjálpa þú mér, hvört ſkal eg flýa? hvar er vörn? hvönær mun leyſaſt eg, ſáibæni eg heitt, því ſútar qvörn, ſvíður mér næſta mjög, upprunnin fögur yndis rós, Jſraels gleði, heimſins ljós, einn þinn blóðdropi dugir mér, dauðans þá mæða er þraung, æ mín hugſvölun helſt það er, þó hér finniſt æſin laung, mig innleiði þá æſin þver, í eilífann dýrðar ſaung.

---

Heyr nú, Guð! mína harma rauſt, heyr mí, Guð! hvörs eg bið, á þér, ó Guð! er allt mitt trauſt, ó Guð! legg þú mér lið; þegar að einginn maður má, mér veita nockra hægð, ó Jesú, Jesú! eg bið þá, Jesú! ſýndu mér vægð, með örmum trúar unn þú mér, e'ſkugi minni að halda þér, fyrir mótlæti fengin er, fögnuður himnum á ljómandi þegar lifum vér, Lambſins hjá trónihjá, um aldir ſýngja eg vil þér, Amen, Halellúja.

O Jesú! gef mér anda þinn, ó Jesú! vert mér hjá, ó Jesú! sálar munnur minn, minnist þig jafnan á, láttu mig, Jesú! lofa þig, lið veittu, Jesú! mér, elskaðu, Jesú! aumann mig, ó Jesú! treysti eg þér, veittu mitt, Jesú! voldugt skjól, vermi mig, Jesú! eilíf sól, leystu mig, Jesú! löstum frá, svo ljómi eg í dýrðinni, Lausnarinn Jesú! lát mig fá, líf, frið í gleðinni, heiður sé Guði himnum á, og hjartans þakklæti.

---

Þegar að eg skal falla frá, Frelsarinn Jesú minn! vertu með þína hjálp mér hjá, himneski læknirinn! lækna þú mína særða sál, svo að hún verði frí, þá líkhaminn drekkur dauðans skál, dýrð hana flyt þú í, en á meðan þú lið mér ljær, léna mér styrk þinn, Jesú kjær! heimsins að forðast synda síð, sem að mér eykur mein, umkríngi mig á alla blíð, þín Engla vaktin hrein, heyrðu nú, Jesú! hvörs eg bið, hátign þín prísist ein.

---

Þegar að heimi fer eg frá, frá allri mæðu og sút, sút og armæða þrítur þá, þá líður

strídid út, útvøldum hjá mér, Gud minn! géf, géf þú um eilífd víst, víst þessa fyrir utan ef, efalaust eg gyrnist, gyrnist þig, dýrdar Kóngur klár! klár mega þjóna laus vid fár, fárid er þrotid eymda ótt, ótti, bøl, hygd og þrá, þrái eg jafnan fund þinn fljótt, fljótt megi komast á, á mér hríni þín gjædsku gnótt, gnótt dýrdar, Amen, já!

---

O Jesú! géf þú ad mín trú, eblist í sómanum, ó Jesú! þínum ad mér snú, andlitis ljómanum, ó Jesú! vert mér ætíd hjá, yfirgéf þú mig ei, ó! Jesú treysti eg eflaust á, eins hvørt lifi eda dey, ó! Jesú bæti allt mitt ráð, ó Jesú! kom med þinni náð, ó Jesú! þegar enda skal, mitt ángurfulla stjá, ó Jesú! burt úr eymdadal, ønd mína leidi þá, ó Jesú! lát mig eiga tal, útvøldum þínum hjá.

---

Jesú! þín mildin gjædsku gjørn, géf mér þá hédan fer, sem þín útvalin ønnur børn, eg verdi í dýrd hjá þér, lofandi þig um eilíf ár, í æru og vegsemd há, sigri hrósandi, qvittur, klár, kórónu lífsins fá, æ þeg-

ar kémur andláts stund, ønd minni vísa þann samfund, ó Jesú! lát mér luckast vel, lífs høfn ad finna þar, ó Jesú! þinni ást eg fel, allar þær naudsynjar, ó Jesú! leid þá hætt er hel, til himneskrar farsældar.

---

Ljósid eilífa lýsi mér, ljúfasti Jesú minn! þegar mín endast æfin hér, eg fel í fadminn þinn, andar og holdsins adskilnad, eilífur Drottinn! trúr! bid eg þér sé allt befalad, bjarg mitt og verndar múr! leys mig af allri sút og sorg, síðan inn leid í þína borg, þar sem er eilíf nádarnægd, nægd allskyns fagnadar, eilíf gledi og yndis hægd, hjá útvøldum Drottins þar, ó Gud! veit mér þá ædstu frægd, ad erfa stad sælunnar.

---

Blóddreifdi, Jesú blessadi! blódsveita láttu þinn, svala lynd vera sálunni, þá sorg mædir huga minn; blódrunni Jesú! bænheyr mig, blessa mér sorgir þær, allar sem qvøldu og þjádu þig, þegar mig hrygdin slær, en þá fullkomnad er mitt líf, eymd, mæda, hrygd og daudans kíf, medtak þá, Jesú! mig til þín, meinin þá grædast øll, í

þá sælu er aldrei dvín, útvaldra lofsaungs høll, gladvær sýngjandi sálin mín, svo að þig lofi sujøll.

---

Ur djúpinu til þín lífsins lynd, lángmæddur hrópa mí, klagar mig løgmál, lemstrar synd, líka er veik mín trú, satans þrátt pílur særa ønd, svikull er heimurinn, margføld heimsins vélræði vønd, vandræðin auka stinn, í þessum andans aungvitum. eg tæpti trúar høndunum, á þér, Jesú elskhugi minn! eilífs lífs kraptur ljós, mót óvinunum óqvíðinn, við undanna þinna rós, í dauða mig lífgi dauði þinn, svo dýrðar Guðs hreppi ljós.

---

Af øllu hjarta eg bið þig, ó Herra Jesú kjær! aðstoð þín góð og innileg, ætíð að sé mér nær, veit að eg eigi einann þig, um mína lífsins tíð, blíði Guð minn! bevara mig, svo burtvíki þrauta stríð, géf þú eg ratað géti án kífs, gégnum øræfi þessa lífs, svo þegar lífið úti er, eg megi sælu fá, útvøldum meður Eingla hér, um

eilífar tíðir þá, sætlega jafnan sýngi þér, Sanctus og Gloría.

---

Hørmúnga ský þá hreifa sér, hvørskyns sem vera kann, vertu þá, Jesú minn! hjá mér, mér sýn þig nádugann, øll sú pína sem þoldir þú, þídasti Herra minn! í himininn yfir oss hrópi nú, hvør einn blóddropi þinn, um fyrirgéfníngu frid og hlíf, føgnud, sælu, og eilíft líf, allt er þá fengid, allt er bætt, allt þad sem girnast má, allt þad sem hafdi ádur grætt, allt snúist í gledi þá, allt ok verdur þá síkur sætt, sýngjandi Hósanna.

---

Drottinn Jesú! sem dóst á tré, dag og nótt vak í mér, hjartad bædi og sálin sé, sí-vakandi í þér, mædu þó reina megi eg hér, mig huggi ordid þitt, ad líf kémur nær ed þetta þver, þúsund betra enn hitt, lát þad svo vera laungun mín, ljúfi Jesú! ad koma til þín, sídast nær dauda svefn ad fer, sálunni bjarga þú, fyrir blessadar þínar blódundir, blídasti minn Jesú! lofi þig, Herra! allt hvad er, eilíflega og nú.

---

Umfram allt annad andvørpum, eilífur Gud! til þín, um fyrirgéfníng á glæpunum, grædarans fyrir þín, Drottinn! minnstu þá dýru neyd, dó hann saklaus á krofs, þá voldug þín hátign var ofs reid, vingadi hann þig vid ofs, fullnægju gjordi fyrir ofs hann, og féck ofs barna rétt eilífann, hvenær sem qvedjum heiminn hér, hønd þín ofs veri hjá, í Frelsarans vernd svo fáum vér, og fadminum deya þá, og lifa honum líkt sem þér, landi útvaldra á.

---

Medan eg hjara hlít á jørd, hérveru stutta tíd, þér vil eg færa þackargjørd, þrenníngin guddóms blíd! allt fyrir gott sem unkir þú, af þinni gjædsku mér; ljúfasti Drottinn! lát mig nú, lifa sem kristnum ber, þad sem er eptir æfinnar, efl mig í betrun lifnadar, svo reiti eg ei til reidi þig, med raungu framferdi; líf mitt þá endast leid þú mig, í ljósins herbergi; ó Herra! þér sé æfinlig, æra, lof, þacklæti.

---

Renni eg trúar auga enn, ad hjarta, Jesú! þín, glansar þar nægsta naud bjørgin, nád

þyrstri öndu mín, hana læknaðu auma á, einum blóðdropanum; í þér Drottinn! húndafnar þá, dýrðar að tímanum, rafki svo eckért andar mein, athvarfi því á nockra grein, þaðan kom lífið, lækníngin, og lausnin þeim fjötur bar, höndin þín, Jesú Herra minn! hjálpræði besta var, manna þá veiki máttúrinn, mér kunni ei duga par.

---

Sanna ljós heimsins, sæll Jesú, Son Föður ljósanna! í því ljósi býr æðstur þú, engin sem manneskja, gætur til komist; minnsta mín, mitt hér upplýstu bijóst, er þú með Föður æðstum þín, eilíft líf víst til hjóst, herskrúða ljósins midla mér, svo megi eg vera ljós hjá þér, láttu mig gánga ljósins stig, ljós mitt þá aðrir sjá, ljós þinna orða leiði mig, ljósi stundligu frá, ljósi fegri svo lofi eg þig, ljósanna hæðum á.

---

Rjóðri oss Jesú rauða blóð, sem rann af hans síðu und, sé það vor allra svölun góð, á síðustu dauða stund, ó Jesú! píslar öll þín sár, og allt þitt blóðdropa hrun,

sérhvør þín mæda og sorgartár, sé þad vor afsøkun, ó Jesú! þig vor ørmædd ønd, umfadmi þá med trúar hønd, andláts sveitinn þinn, ó Jesú! afhreinsi vora synd, andláts þorstinn þinn, ó Jesú! æ sé vor svala lynd, andláts stríd þitt, ó Jesú! íklædi oss dýrdar mind.

Eg fel í hendur sérhvørt sinn, sætasti Jesú! þér, inngáng bædi og útgáng minn, og allt þad mér tilheyrir, himneski Fadir! hondin þín, hvørja stund, nótt sem dag, í vøku og svefni veri mín, og verndi vorn allann hag, blessadur Gud! þín blessud nád, blessi nú allt mitt efni og rád, en þegar lísid endast á, og æfistundin dvín, lofadu mér þig sjálfann sjá, Son Guds! í ríki þín, ósk þessi verdi amen, já, ó Jesú! heyr til mín.

Angradur kém eg enn til þín, ó minn Herra og Gud! syndanna byrdi margfold mín, mér gjørir óføgnud, verku nádugur, minn Gud! mér, minnstu á Soninn þinn, hvør til kross dauda hlýdinn þér, hópinn fridkeypti

sinn, ó Herra Jesú! ármán þín, allra-meina sé bótin mín, gef að eg hafni synda sið, setjandi alla von, upp á þitt blessað líknar lið, og ljúfa fyrirbén, þar til mér eilíf gefast grið, hjá Guðs og Lambsins trón.

---

Guðs Föðurs vernd og vísdóms ráð, vel hefur alla tíð, fyrir mér sjeð með dýrri dáð, dýrðligust gæðskan blíð, ó! hvað mikil sú miskún hér, mér veitt af stórri náð, miðt í syndunum mest hún er, meir enn nockur fær tjáð, mér, sem Guði braut mest á mót, minsta gjörandi yfirbót, ángrar mig þó að ei eg gét, eða kann synd við sjá, þegar það góða mest eg met, mér er sem hrundið frá, samt eg allt traust á Son Guðs set, sem aldrei bregðast má.

---

Jesú réttlætis qvistur klár, kóníngur dýrðar skjær! lækna mín dauðlig synda sár, sál mína endurnær, samvitsku orma sárin leið, sárin þín lækni best, mitt brjóst er þjáð af margri neyð, miskun þín ábreiðist, þinna blóðunda ljúfust lynd, lífgi mig auma skepnu kind, dauðans þá tíma dregur að, Drottinn!

vertu mér hjá, farsældar lát mig finna stað, friðlandi þínu á, um mér að hreppa athvarf það, amen, Hallelúja!

---

Þolinmóðt hjarta eymdum í, ó Jesú! géf þú mér, raunfrekann þar eg byggi bú, burtrek mig ei frá þér, yndæli gott í undum þín, önd minni hugsvali, ránglætis gnægðum gleim þú mín, Guð, í Jesú nafni! sjá þú tíðum eg tárum eys, tak mig að þér og héðan leys, einmana fugli aðstóð tjá, í þínum faðmi vef, nær eg sæ land úr sorgar sjá, sælu eilífa géf, Drottinn Jesú! þér einum á, allt mitt hjartans traust hef.

---

Allra síðast þá dauðans dúr, dinur á hjartað mitt, hjálpi mér þeirri hættu úr, hjarta blóð, Jesú! þitt, drjúpi það mína öndu á, í þeirri stóru neyð, æ! géf þig mætti sjálfann sjá, sem þoldir krossins deyð, höndin trúar þér haldi fast, Herra! lát mig ei vanmegnast, sorg er þá bætt en sælan vís, syngur þar laus við fár, sigur, vegsemd, lof, sómi, prís, sé þér, Lausnarinn klár!

þeirrar farsældar kjör eg kýs, með Kristi um eilíf ár.

---

Óhræddur deya vil eg víst, vær svefn því dauðinn er, ei(ð)sann dauða eg óttast síst, ábati er dauðinn mér, Sonur Guðs hefur dauðann deydt, deyandi, á krossins tré, og dauðans remmur allri eydt, afl dauðans linandi, dýrmætur er því dauði minn, dauði! hvar er nú broddur þinn? Jesús því dauð-ans dauði er, dauðans brodd vann til sanns, í mínum dauða það mig styrkir, mitt líf er í valdi háns, hann mig úr dauðans hættu ber, heim til míns föðurlands.

---

Leið mig í friði þjón, Guð! þinn, með þínu orði burt, afgángur verði góður minn, géti það allir spurt, af hjarta feginn héðan eg fer, hafa mín augu séð, hjálpræði þitt í höndum mér, heiminn því glaður qveð, sjálfur tilreiddir þetta þú, fyrir þjóða allra von og trú, eitt ljós heiðnum að lýsa vel, sem lifa á myrkum stað, og til dýrðar Ís-rael, því af honum fæddist það, undir þess

skin og skjól mig fel, skiljumst við aldrei að.

Vond þá stjúpmóðir veröldin, verður mér hverfa frá, blíður minn sálar brúðguminn! bjóð þú mér faðminn þá; viðskilnaðar mér veit á tíð, verði eg með rænu og fró: Drottinn! farsæl mitt dauða stríð, til dýrðar leið er mjó, varðveit mig lífs á veginum, vertu mitt ljós í dauðanum, glaða upprisu gef þú mér, Guð minn! af þinni náð, blóðdropinn hvör sem í mér er, efli þinn prís með dáð, lof sé þér um allar aldir, ó Jesú! meyar sáð.

Mótstöðu, Guðdóms brenning þín! þeim sem offækja mig, af því þinn máttur alla tíð, augsýnir, Guð minn! sig, stoðar eingum þér standa á mót, styrkir það mína trú, veitu mín heill og hugarbót, hjálpa mér, minn Guð! nú, hrekvísanu óvin, hrek frá mér, hröckur hans máttur ei við þér, er eg kvistlurinn á þér einn, ágjæta lífsins tré, máttu því ecki, minn Guð hreinn!

missa þó veikur sé, vertu mér ei til vernd-ar seinn, vor Guð og hjálpari!

---

Andvarpa eg og bljúgur bið, blíður Guð! miskun þín, að þitt himneska hjálpræðið, hreinsi svo öndu mín, að ekkért hefndar íllsku gróm, aumum mér finnist hjá, heldur þolgjæðis blíða blóm, best sem þér geðjast má, háðúng og spott þó meinið mér, marg-víslegt og skapraunir, hógværð þú mínu hjarta géf, haturs eg forðist lyst, hvort vaki eður sætt eg sef. sálin mín upperfist, til elsku og fridar, eg þá hef, eilífa hjá þér vist.

---

Í forsjón þína og fødur hønd, fel eg nú, Drottinn! þér, líkama minn með lífi og önd, lán allt og heilsu kjør, mitt svo eg agti starf og stétt, stjórnaðu minni lund, hér með einnig mig haldi rétt, á hrygðar og gleði stund, kristnihald mitt, kjærleik, og trú, með krapti þínum, ó Jesú! auka jafn-an og efla virdst, uppá það sál mín fróm, týrdarleg fái fyrir þér birtst, þá fer þú að

halda dóm, kom Herra Jesú! kom sem fyrst, klárt gjør allt synda gróm.

---

Daudans þegar eg nálgast nótt, nádugur vert mér hjá, med bærilegri banasótt, benda virdstu mér þá, í fadmi sælum ad sofna þín, sæti Fadir! eg kýs, óttalaus er þá øndin mín, og eilíf gledi vís, sídan í Lambsins ljóma klár, lofi hún þig um eilíf ár, þú sem ad allt med ordi ber, einn Guð og þrenníng hái! samhuga allir sýngjum þér, sigur vers himnum á, valdid þitt dýrd og æran er, Amen, Halelúja!

---

O þú verandi veraldar, verúligt á og ó, uppruni lífs og endíngar, endalaus kraptur þó, minnstu þinn trygda eyd uppá, úthafin synda gjøld, nær þú oss alla nemur frá, nálægri sorgar øld, græt oss ei lengur, Gud minn trúr! géfdu oss hægann andláts dúr, skugganum hrindi skoðunar ljós, þíns skjæra réttlætis, láttu oss verda lysti ljós, Lausnarans Jesú Krists, glæsta med eilíft gledinnar hrós, Guds barna kjøryndis.

---

Náð þín, minn Guð! mér nægir vel, nauð=stöddum líkn mér sýn, eg þann mann harla hólpinn tel, sem hjá er verndin þín, því mér breiskum þinn andi er, ánægjandi, Guð minn! gétur ei Satan grandað mér, gjör=ir það kraptur þinn, viðhaldtu minni veikri trú, voldugi Guð! þess bið eg nú, heilagi Andi, hjálpin mín! hugbreisku jafnan mig, eydist þá neyð og andar pín, á raunum verður svig, um allar aldir ævin mín, ó Drottinn! lofi þig.

---

O Guð! nauðstaddra einka traust, álítu mig í náð, grátbeiðni minnar gégndu raust, gjörstu mitt hjálpar ráð, loford þitt, sannast lát á mér, lífgar það öndu mín, æ! sjá hún bíður eptir þér, aðstoðar leitar þín, hjarta míns veri hærsta ró, Herrann Jesús sem fyrir mig dó, blóð hans afmái brotin öll, blessunar dýrsta hnoss, gjörvöll syndanna græði spjöll, Guðs Sonar dauði á kross, leiði síðan í lífsins höll, lifandi Jesús oss.

---

Ódauðleg sé þér æra og prís, Endurlausn=arinn kjær! sigur, makt, speki og sómi vís,

sanntjáður fjær og nær, af öllum túngum arla og síð, ankist þér þackargjörð, Engla og manna alla tíð, á himni og líka jörð, lofi þig allt hvað lifir og er, lofi þig sérhvør vera í mér, ástgjafir heilags Anda þíns, upplýsi hjartað mitt, af nægðar gjæðum sætleik síns, svo er mér rótt og fríðt, önd leiði á stundu andláts míns, í dýrðar ríki þitt.

---

Gleð þig, mín sála, Guðs í náð, já gleðst af hjartans rót, því hann fyrir Jesúm hefur þér tjáð, harma gjörvallra bót, leyst frá myrkrum en ljósið skjært, leiðt fyrir augu þín, í hvørju þér sé ætíð vært, inn 'til þess lífið dvín, hans ástar hjarta er opið þér, út þaðan fljóta lækirner, huggunar, náðar, hjálpræðis, himneskrar rósemdar, arfleifð er sú í æru seis, eilífrar Guðs dýrðar, blíðlundud skaltu bíða þess, bæn ydkandi trúar.

---

Rétti hjálpari, Herra Guð! hvørs vald' að eilíst skín, mér sem lofaðir líkn af náð, þá leita færi eg þín, sjá nú eg kém og kloppa

uppá, kraminu í andanum, svølun girnandi nockri ad ná, af nádar brunninum, ad sál mín verdi sæl og hreſs, ſjálfur kantu ad orka þeſs, ómøgulegt því eckért er, almætti þínu hjá, eg veit hvør sem þú adhlinnir, aldrei fordjarfaſt má, æru-kjör þau eg óſka mér, af þinni miſkun fá.

---

Nægir mér þá svo neitt ei kann, nokkurn tíd breſta mig, hafi eg ætíd handvíſan, til hjálpar, Drottinn! þig, líf mitt og sál þó lýiſt hér, og láti krapta sín, huggun míns hjarta og hlutdeild er, heiløg trúfeſti þín, hugſandi ei um heimsins par, hégómligar vellyſtíngar, því innra mannsins eptir bíd, øll lyſt og ſtundan mín, hnígur ad þér og falar frid, fagurt þar dýrdin ſkín, hjá Jesú Kriſtí hægri hlid, hverfur þá mæda og pín.

---

Dáſemdar verkin birſa mig, Drottinn! sem gjørdir þú, blídann framar ad bidja þig, bæn mína álít nú, ad minn velſignir allann hag, eilífri bleſsan med, svo lífs farſæld og luckuhag, lánggædann fái eg ſjed,

athafnir mínar, áform, ráð, ætíð stjórnist af þinni náð, öllum meinsemdum varna við, vernd mín og hyrðir trúr, eins vertu, Guð! á alla hlið, öruggur styrktar múr, fyrir þíns Engils fylgdar lið, frelsa mig vanda úr.

---

Dygða féssjóðu og dáða safn, Drottinn! eg beiði þig, fyrir míns Jesú fríða nafn, fjölga þú æ við mig, Andi heilagur allrafyrst, unn mér og veit af náð, í hjarta mínu hafi vist, hreint þar tilbúi sáð, andi Guðs ótta, góðsemdar, gétprýði, ráðs og vitskunnar, andi hreinlífis, ástsemi, æru, þolgjæðisins, andi ljúflætis óstolti, afvendi brögðum hins, andi blessaðrar bænrækni, bljúgur sé til Drottins.

---

Dagur þá lífsins endast á, ó Guð! minn Frelsari! lending himnesfri lát mig ná, í lífs eilífs sælgjæti, ógn dauðans kann mér eckért grand, auka né fordjörfun, helgud sál mín á lífsins land, leidd af Guðs Englum mun, og í hans hendi um eilíf ár, ætíð forvarast blessud klár, ódaudlig, gladvær eck-

ért þar, ángur kémur né pín, brúsandi mótgángs bilgjurnar, burt eru og sorgin dvín, en æra og vegsemd allskonar, ordin þá hlutdeild mín.

---

O þú heilagi, heilagi, Herra Gud sannleiksins! ó þú, minn Jesú! ástsæli, einka von mannkynsins, ó þú, huggunar andi kjær! um eilífd blessadur, guddómlig vera gód og skjær, Gud einn, og svo þrennur! opid lát vera eyra þitt, andvarpid svo ad kunni mitt, í Jesú nafni álítast, svo opt eg fram þad ber, haldtu med mér í hendur fast, hvad sem mitt géd særer, æ minn Gud! lát þad ei bregdast, eilíflega né hér.

---

Treysta vil eg á trygdir þín, trúfasti Gud Drottinn! ad allann minn veg og efni mín, umsjái kraptur þinn, rósemda svo eg ráfi ei, réttum tákmørkum frá, út í skadsemdar villu og vei, vandrædi stór né smá, vísa mér, Herra! veginn þann, og virdstu ad gjøra farsælann, sem þín hefur elskan ávardad, eg skuli gánga frí, géf mér eg ætíd gjøri þad, Guds Sonar nafni í,

hvad hér í lífi hefst eg að, heill fylgi blessuð því.

---

Eg veit minn lifir ljúfur og trúr, Lausnarinn himnum á, sá sem armæðu allri úr, einn fielsa kann og má, afþerrar gjørvøll augna tár, ástúdlig hondin hans, gledinnar mun um eilíf ár, aldreji verda skans, þegar sú kémur þæga stund. þann girnist sál mín dýrdar fund, ó Jesú! kom og innleid mig, í unun og farsæld þá, ó Jesú! leif mér að sjá þig, en ei þér skiljast frá; ó Jesú! þér sé eiliflig, æra og vegsemd há.

---

Ráð, kraptur, hetja, høfdíngi, heilagi friðarins, eilífur Fadir og Frelsari, fortapaða lýðsins, medtaktu þessa, blíður! bæn, sem ber eg fram í trú, ó þú Guds dýrdar ímind væn, aðstodaðu mig nú, hjá þínum Fodur himneska, hann svo mig virdist álita, að hvað sem eptir ordi þín, eg hefi bedið hér, hagqvæm það verdi blotnan mín, háleitt lof og þackir, eg skal þá hvørt er aldrei dvín, um eilífd færa þér.

---

Tímanum hef eg øllum eydt, út géfid Herrans pund, og í syndum mig sjálfan þreitt, sannliga hvørja stund, frá einu íllu í annad fljótt, anad sem rádlaus mann, úr einni villu í adra skjótt, ófuckuveginn fann, heldur seint ad því hef eg gád, hlaupnri tíd verdur ecki nád, Drottinn! hjálpa mér veikum vid, voludum, aumum hér, finndu mér besta frelsis lid, forgleimt þó hafi eg þér, hrunnur miskunar géf mér grid, gleimdu samt ecki mér.

---

Ofur stór þó sé íllgjørd mín, enn fleiri sandkorni, meiri og stærri er miskun þín, minn Gud og Frelsari! þú hefur mína bresti bætt, brotin øll forlíkad, hrigdar-dryck vín í snúid sætt, svalalynd er mér þad, smánar kóróna af þyrnum þín, þad er nú dýrdar krínúng mín, hrellíng, qvøl, skjálfti og hrygd á þér, harmqvæli, písl og sár, hug-svølun, bót og bjørg er mér, balsam og smyrsli klár, daudi þinn líf mitt eilíft er, upp-risu vegur hár.

---

Allra sképna þá adstod dvín, adstod, Gud! vertu mér, frá vinum fara verd eg mín,

vin minn! tak mig að þér, eyrun þá heyra ecki fá, eyrað þitt heyri mig, augum nær kunna ecki að sjá, önd mín horfi á þig, túngan þá ecki talar neitt, trúað hjarta þig elski heitt, dauðans þá koldum sveita útslær, sérhvörn um liminn minn, bjargi mér, Jesús, bróðir kjær! blóðugur sveitinn þinn, lútin sú helst mig laugað fær, lífs jurta brunnurinn.

---

Dauðans þá ógnin, Drottinn minn! døpur mig sækir heim, fylgir henni mörg freistíngin, forðaðu mér við þeim, géf mér ørugt og einbeitt géð, alhuga að treysta á þig, í stríði því mér stattu með, stirk þú þá aumann mig, minnstu þá á mig, góði Guð! gleimdu mér ecki í þeirri nauð, allra síðast þá önðin mín, yfirgefur holdið, heiløgust blessuð høndin þín, henni þá taki við, burt laus við synda brotin sín, blífi hjá þér í frið.

---

O Drottinn! eg bið aumur þig, ó Drottinn! bjarga mér, góður, ei yfirgéfðu mig, Guð minn! eg treysti þér, hvört sem þú lætur

dúr eda deyd, draga mér krapta frá, vertu mín hjarta lífsins leid, lampinn sem rata eg á, hvørt sofum eda vøkum vér, voldugur Gud! tilheyrum þér, þú ert lifendra og lidinna Gud, lof sé þér alla tíd, þú ert lifendra lífsins braud, lofliguſt þrenníng blíd, þú géfur lífs og lidnum aud, ljómandi eining þíd!

Aftir hlutir á alla lund, allſtadar fjær og nær, í øllum ſtødum, um alla ſtund, allt hvad Gud hugſad fær, vegſami, dýrki og þacki þér, þrenníng Guds háloflig! heidri og gøfgi medur mér, mildin ſjálf eilíflig; mínútu hvørja margfaldiſt, mikliſt þitt nafn og vidhaldiſt, æſinlega ſem aldrei dvín, eblandi jafnan ſig, heilagi Andi! hjálpin þín, huggi og gledji mig, allar ſtundir ſvo ødin mín, ædſtur Gud! lofi þig.

O! hvad fánítann hefur róm, holdsligt verunnar glis, mannsins lífdaga beſta blóm, blaktir ſem lauf og ſis, hvar fyrir ſafna þeinkir þá, þannig auranna gnótt, því holdid veſta heiminum frá, héðan burt

víkur fljótt, forgengiligt og fánýtt vallt, fullt af hégóma er hér allt, Jesú! í dauda unn þú mér, eilífu lífi ad ná, Jesú! mig hægt á høndum ber, í himna sælu þá, Jesú! svo ad og sýngi þér, Sanctus og Gloria!

---

Aví! Aví! minn aumann hag, eg játa svoddan frekt, eg hef minn sérhvørn æfidag, alidí synda sekt, mér sjálfum vesłur ordinn er, ó Drottinn! náda mig, hjálp þína veittu, mildur mér, ad megi eg svo elska þig; géf eg svo lifi hér í heim, ad himnaríkis, ylma seim, í dauda hljóti øndin mín, med unadsemd og frid, mitt hjarta lángi heim til þín, hér til veittu mér lid, þar allskyns eymd og þrautir dvín, hjá þinni hægri hlid.

---

O. Gud! sérdeilis er mín bón, upplýs þú hjartans kér, á mér þínum aumasta þjón, ad eg vel treysti þér, og øllu framar elski þig, ástundandi sem ber; yfirgéfdu því ecki mig, er min von bygd á þér; í þína mildu maktar hønd, mitt hús, børn, qvinnu, eign og ønd, æruna, góts og embætt-

id, eg befel hvørt eitt sinn, vertu min hlífd og hjálpræded, hjartkjæri Jesú minn! íllt svo ad fái eckért skéd, Engill lid veiti þinn.

---

O Drottinn! aumur eg fyrir þér, eg stend grátbænandi, mínar syndir og misgjørdir, miskunin forláti, drígdar á móti mildi þín, med hugsan, verk og ord, um undanfarna æfi mín, er 'þad stærsta misgjørd; minstu á þína miskun því, minn Gud! eg hrópa enn á ný, lát ei réttlætis reidi slag, reka út barnid þitt, sem treystir Jesú hjálpar hag, ad hennar brot sé qvitt, og í hans benjum enn í dag, afbrotid hylur sitt.

---

Mitt ángrátt hjarta andvarpar, ó þú mildi Fadir! ofbod syndanna ofþjakar, ó Gud! líkna þú mér, fyrir mergd þinnar miskunar, misgjørdir afmá þú, ad eg betur enn ádur var, ástundi hlýdni og trú; tilreid mig svo í heimi hér, sem hæfir ad vera um ei'ífdir, nær þig í ángist ákalla, álít bænar hróp mitt, fjærri sé þér ad forláta, for=

líkad barnid þitt, fyrir þinn Soninn sætasta, sem útgaf blódid sitt.

---

Sé þér um aldir sómi og dýrd, sannleiksins Andi hreinn! af hjarta og munni hvørn dag skírd, huggun þú sendir einn; þín hefir smurning þá víst sóin, þæga Fødurnum gjørt, sem fyrir allann veikleik vorn, var offrud skjær og bjørt. kom þú, Herra! í húsid þitt. helgadu skurgad brjóstid mitt; svo ad eg megi sýngja prís, Syni, Fødur og þér, bædi þá sólin setst og rís, svo sem réttkrístnum ber, fram yfir allt eg fund þinn kýs, Frelsarinn Jesús! mér.

---

O Jesú! blessud árnan þín, umsorgun veiti mér, svo ángrad hjarta og øndin mín, ord þau heyri af þér: vertú hughraustur barnid blítt! boda eg sannann frid, af því þín misgjørd øll er qvitt, eg er þitt réttlætid; Guddómsins Andi eilífi! æ sé minn lærimeistari bjargandi øllum breiskleika, burt taki úr hjarta mín samvitsku vonda syndanna, svo eg í ljósi þín, for-

sjálf kunni ad framgánga, fram til þess æfin dvín.

---

Vendir minn hugur verøld frá, vill hana leingur ei, umgeingni hafa himnum á, hann gyrnist uns eg dey, aungva hér nidri finnur fró, fyrir hentuga sig, en andleg bædi og eilíf ró, á hæd er fáanleg, þángad mitt tilflugt, tek því allt, med trausti því sem er óvallt, ad fyrir pínu Frelsarans, Fadir himneskur mér, fyrirgéfi minn glæpa fans, gamall og nýr, sem er, nafnid svo lofi Lausnarans, lángar um eilífdir.

---

## Eckju Sorgarvers.

Flý eg nú til þín, Fadir kjær! forsvarid ecknanna, munadarlausra skjøldur skjær, skapari mannanna, réttu mér þína hjálpar hønd, hjálparlaus því eg er, miskuna dapri minni ønd, mig alla géf eg þér, fødurlans blessa børnin mín, bjargi þeim alþekt miskun þín, Fadir þeirra en forsvar mitt, fárádrar eckju sért, ó Jesú! fyrir ángrid þitt, álít minn rauna snert, géf eg

frá 'allri qvalníng qvitt, kunni þig lofa bert.

## Sama efnis.

Eg veit þú telur tárin mín, trúfasti Lausnari, í adgjætsluríkri umsjón þín, øll þau velgeimandi, eckjuna í Naim áleitst þú, eins muntu gjøra enn,' hrygd minni allri, Herra! snú, í himneskann føgnudinn gott verdur mér þad gledi vín, í Guds ríki sídar hvar ei dvín, føgnudur allskyns farsældar, þá fæ eg ad líta þig, ásamt mínum sem eru þar, ádur mettandi síg, af nægdar gjædum gledinnar, gjørir þad hugga mig.

## A Sóttarsæng.

Allrar líknar uppsprettan skjær! ástríki Jesú minn! kom þú ljúfur í nád mér nær, náqvæmi hjálparinn! legdu nú þína læknis hønd, líf mitt yfir og sál, sorgandi virdstu sefa ønd, er sjálfum þér þykir mál, ofreyndu ecki mitt nú megn, minnar bænar andvørpum gégn, byrg eckí þína miskun

mér, þó móti þér syndgadi, þínir dýru blóddroparnir, dylji mitt lasta ve, láttu mig deya og lifa þér, Lausnarinn trúfasti!

---

Almáttugi eilífi Gud! æ sé þér dýrd og prís, miskunin þín er marghàttud, og mér frambodin vís, ránglæti mitt sem æfi ár, eykst þar til lífid dvín. Jesú blóds unda kraptur klár, komi vid sárin min, láttu mig eptir þyrsta þér, þess bid eg nú og óska mér, svølun lát mína sálu fá, sætasti Jesú minn! í andarslitrum innstu sjá, nær ønd skilst og líkhaminn, í dauda strídi mig dreifist á, drejra blóds vøqvinn þinn.

---

Allra sídast þá aungvit hér, yfir mig lída skal, og glasid lífs útrunnid er, í þessum tára dal, dreypi á mína aumu ønd, almættis vøqvinn þinn, hún þegar skilst vid holdsins bønd, hjartkjæri Jesú minn! álíttu hjartad mædda mitt, mundu þá dauda strídid þitt, þegar af Eingli þádi lid, þín mannsdóms náttúran, lát mig þess njóta nú eg bid, nær eg fer burt hédan, leid mig svo

inn um ljóssins hlið, í ljómandi sælu rann.

O Jesú blessuð edla lind! alblóðugann þig sje, friðþægi mig þín fegurst mind, við Föðursins réttlæti, ó! þinn blóðfaðminn, bæn og tár, og brunn-opna síðu und, breið þú yfir mín synda sár, síðast á dauða stund, heilagur Guð vor! heilagur, heilagur er þinn manndómur, skrúða réttlætis skeinktir mér, skínandi krossi á, hér nú og síðar hann eg ber, hátróni þínum hjá, síðan lof eilíft sýng eg þér, Sanctus og Gloría.

Allra síðast þá andardrátt, ørmæddur dreg eg hér, láttu, Drottinn! þinn mikla mátt, máttugann verka í mér, svo hjartans innstu hræríngar, horfi beint uppá þig, þegar þú krossins byrði barst, blóðugur fyrir mig, blessaður géf mitt bænar óp, og blóðfórnar þinnar dýrsta hróp, hrópi miskunar eyra í, eilífrar Hátignar, svo sál mín verði af fári frí, friðlandi nái þar, er saðníng, fagnaðar nóg á ný- næ eg til eilífðar.

Hédan í burt med friði eg fer, fyrir Guðs dýra náð, hann hefur andsýnt, mildur, mér, miskun og hjálparáð, svo skilst eg laus við hryggðar hag, hvorsin er mótgángs tíð, fagna eg mínum frelsis dag, fengin er náðin blíð, qvöð eg svo hús og heimkynni, hér með frændur og ástvini, í gégnum dauðann greidt eg fer, glaður í dýrðar víst, önd mín hjá Guði syngur sér, Sanctus með alli lyst, sæ og blessuð mín útför er, í þér, minn Jesú Krist!

---

O Jesú sæti! eg þig bið, Jesú! heyr þú mitt qvein, Jesú! sál minni legðu lið, og lækna mín synda mein, heyrdu Jesú! eg hrópa á þig, hjálpaðu, Jesú! mér, annastu Jesú! aumann mig, ó Jesú! treysti eg þér, vertu minn, Jesú! verndar múr, vernda mig nauðum öllum úr, ó Jesú! géf að andin þinn, aldrei mér víki frá, ó Jesú! sálar sadníngin, sigrinum lát mig ná, unn mér, Jesú! eg þrællinn þinn, þér skíni um eilífð hjá.

---

Kóngur Jesú! sem krossin barst, Kóngurin blessaði, Kóngur dýrðar! sem qvalinn

varst, Kóngs nafn þitt heidrad sé, Kóngs med tign þeirri krýna vann, Kónga um heimsins lád, Kóngur sem aftókst qvala bann, Kóngs þess vér heidrum dád, Kóngur ert yfir kóngdum heim, Kóngi allir lofsýngi þeim, Kóngur yfir hvad kallad er, Kóngur frá upphafs tíd, Kóng þann til hjálpar kjósum vér, Kóngur eit árla og síd, í Kóngs dýrdar salinn komi oss hér, Kóngs nád þín harla blíd.

---

Son Guds Jesúm eg fannan bid, send þú mér Anda þinn, helst þá eg skal hér skilja vid, og skoda Frelsara minn, andláts þad verdi ordid mér, ádur enn dvínar mál, hjartans Fadir! í hendur þér, hreint fel eg mína sál, á uppríſu deiginum unn þú mér, arfleifd ad ná med sjálfum þér, og sýngja Drottni um eilíf ár, æru, vald, þackir, prís, þig ad vegsama þrennínq klár, þettad eg fyrir mig kýs, amen, ja, þad um alldir hár, æ! sé þér dýrdin vís.

---

Í Guds nafni madur gá ad þér, grát þína mörgu synd, vid fallvalta glisid heims-

ins hér, hjartad eg ofmjøg bind; vertu strídinn vidbúinn, vak þú sem forsjál mey, þeink þú á dauda sérhvørt sinn, syndga muntu þá ei, í hreinni ydran þú hvørn dag vak, heilskiuta Drottins á þig tak, þá muntu heya herlegt stríd, himneskum sigri ná, eptir armædu endta tíd, afløgd verdur þér þá, kóróna lífsins føgur og fríd, fødurlandinu á.

---

Eigum vér eptir endad stríd, í vonum fødurland, sælu kjørin svo fínum fríd, fyrir útlegdar stand, hormúnganna í heimi hér, hjertad ei minnist þá, ángri því skúfar út frá sér, eilífdar gledin há, Satan né hold ei freistad fær, forgeingnar eru plágur þær, sál og líkhami synda veik, sjást ei vid dýrdar prís, háfa fullkomin heilagleik, hugguninn sú er vis, sídan hjá lífsins unum eik, í himins Paradís.

---

Daust á ad sniast vatn í vín, vor þegar hérvistin, fullkomnad hefur forløg sín, fyrri sem grættu kinn, lýir þá hvørki líf né sál, leingur útlegdin hørd, harmatølur og hrygda

mál, heyrist ei lífs á jörd, heilagur, heilag-ur, heilagur, hljómar sá þýdar lofsaungur, eilífdarinnar endalaus, um árin síféldt þar, séi hvør útvaldra leiki laus, lídanir vid þær bar, huggun sú øll er hjartad kaus, hrellíngum frá vísar.

---

Hugur minn allur heim til þín, horfinn er, Jesú minn! andlegra þrauta þjádur pín, þreyir sá himininn, hvar þín unadsemd endalaus, ánægju veitir mér, hjartad er laungum kjæra kaus, framid af ángri hér, eptir þeirri eg blessan bíd, biðjandi þig á hvorri tíd, ad hédan synda sorgum frá, sál mína leysir þú, svo þér hún lifi sjálfum hjá, sæl í fullkomnri trú, indæl verdur, þad ætla má, umskipta gledin sú.

---

O! Jesú! Jesú! Jesú! minn! Jesús mitt hjálpar traust! helgastann fyrir heidur þinn, heyr mína bænar raust, adstoda mig vid andar stríd, óvinum hennar gégn, vel ad standast þá voda hríd, veittu mér trúar megn, nádar høndin þín nógu sterk, nidur fjandmanna brjóti verk, þeirra svo hrapi

bigging hanns, en bættann eg finni móð, og sýngi fagrann sigur dans- síðan við kjörin góð, meður hirðsveitum himna ranns, hólpinn fyrir þitt blóð.

---

## (Í hallæri.)

Lífsins í mæðum, lífsins Guð! líknaðu mönnum nú, ángrinu skjæða í fögnuð, aptur að nýu nú, aumkva gjörðu vort rauma ráð, réttu það, Drottinn! við, midt í reiðinni minnst á náð, miskunar brúka sið, allra misgjörða illann hátt- oss fyrirgef og tak í sátt, hallæris létt svo hardri pín, en huggun blíða greið, veit að hvør gráti syndir sín, er sárri valda neyð, til Sions dýrðar sælu þín, síðast oss alla leið.

---

Púngum eg veltist þrautum í, það veistu Drottin kjær! blóð fyrir Jesú bjarga því, blíður mig endurnær, hans fyrir sár, og hjarta flóð, Herra Guð! vægðu mér, sorganna allann míktu móð, meðan eg tóri hér, bjarga mér, Jesú! bróðir minn, blóðsveita

dýrstann fyrir þinn, en þegar dvínar æfin mín, innleid í dýrdar sal, aflidin er þá eymd og pín, eckért mig hrella skal, í eilífri sælu eg þá skín, útvaldra heyri tal.

# Ennfremur nockur Missira-Skipta, Hátída- og Helgidaga, Ovøld- og Daglegvers, med ýmsum Logum.

## a) Í útgaungu Sumars.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hverr sem kann.

Sumar tíd, sæl er umlidin nú, blessud blíd, hagstæd og holl var sú, lífs og sálar gjædi gód, gafst oss, ó Drottinn! oll þín verk um fold og flód, funtu því vottinn, þackar fórn, þér viljum færa, þín ad stjórn, þeigin ástkjæra, anda vorn, vann endurnæra, heilsu med og láni lífs. :,: Ómælanleg øll sú nád, er. Hallelúja. :,:

## b) Jóla vers.

Med sama Lag.

Heffjum nú, hátídar saungva=dans, af því sú, er bodud kyni manns, fréttin gód ad fæddur sé, Frelsarinn blíi, er sitt fyrir blód, af syndinni, og samvitsku strídi, leysti oss, lét sig því festa, uppá kross, ángistar mesta, sælu hnoss, svo allra besta, aptur keypti aumum heim. :,: Elskum, lofum, heidrum hann, med hjarta og túngu. :,:

Lagid: Rís upp Drottni dýrd.

Sú kiárasta sól, af Síons dýrdar hæd, er nú upprunnin Adams børnum hagstæd, hjartans huggun finn, hennar lýsi þar inn, geislar skínandi, Gud lofadur sé minn, daudans faungum fæst, fyrir písla hrís, opnud, ádur læst, eilíf Paradís, Bethlehems bjartur ljómi, Barnid Jesú frómi, heim leysti, hans lof himin og jørdin rómi.

## c) Nýárs vers.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hverr sem kann.

Ár í sæld, endar nú þjód um lønd, nád

ómæld, nidur frá Drottins hønd. yfir streimir oss á jørd, ángurs ver strídi, hreisa menn og hvørskyns hjørd, hagqvæmar tídir. Lofum Gud! líss fyrir mæti, hann fognud, huqann umbætir, mannsofnud, med eptirlæti, gjædsku sinnar gledur dátt. Verøld øll til vegsemdar, verkum hans lýsi, allra heims og eilífdar, aldir hann prísi.

---

Lagid: Allir dagar eiga qvøld um sídir.

Gud Nýára gési oss eptirlæti, geim við fára neyd á bedi og fæti, ad hin sára ángur tára, ama bára, oss um brár ei væti.

---

## d) A Uppstigníngardag.

Lagid: Losid Gud! Losid hann hvørr sem kann.

Uppstíginn, aptur til himins er, Lausnarinn, er leid, í heimi hér, hardann dauda og qvøl á kross, svo keypti til handa, Fødurs náð og ástir oss, en Adams fallgranda, yrdu fár, í fognud snúin, og eptir ár, æfinnar slúin, sæla klár, sé fyrir búin, í himnaríki líss vid ljós, :,: Eilíf, eilíf, eilíf víst, er Halelúja. :,:

---

## e) A Hvítasunnu.

Med sama Lag.

Huggarinn, heilagur Andi, Gud! hjørdum þinn, himreskann géf fognud, upplýs, hreinsa helga sál, henni géf vilja, háleit þín og heiløg mál, til hjálpar sér skilja, um Fødurs rád, mót fall-syndar voda, um Sonar dád, ofs til adstoda, um þína nád, þetta sem bodar, allri þjód um allann heim. :,: Gjøldum þér fyrir gjørning þinn, gott Hallelúja. :,:

---

## f) A 9da Sunnudag eptir Trinitatis.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

O Jesú! ad þér snúi, anda vorum, hann svo vaki, og vara taki tímans, vitjunar, þinnar þar, þú nær, heldur, med helgann róm, hærsta dóm, gjørdir géltur.

---

Lagid: Lífs reglur hollar heyrid menn.

Tímanum vara tokum á, tímann Gud medan lér, tímann sparar því tign hans há, tímann ad rækjum vér, í tíma þar ad

tokum gá, tími lífs fyrr enn hver, tími sæld vara tér oss þá, tíminn um eilífðir.

---

## 7 Viku qvøld vers.

### A Sunnudags qvøld.

Lagið: O Drottinn allsvaldandi!

O Drottinn allsvaldandi! alla hluti sem gjerir vel, gjæt vor í nótt við grandi, geimda í þinni tjaldbúð sel, miskun á, minstu þína, mønnum þá, vyrðstu auðsýna, lát oss hjá, ljósið náðar skína.

### A Mánudags qvøld.

Enn er umliðinn dagur, ecki þann fremur sjáum vær, ýtist vor æfi hagur, endingu sinni nær og nær. gef því vér, gát á tekum, Guð! og hér til þín kvokum, svo hjá þér, sofum bæði og vøkum.

### A Þriðjudags qvøld.

Drottinn! sem dimma lætur, deiginum eptir fylgja nótt, að oss nú gefðu gjætur, og geim, svo blunda meigum rótt, øllum frá

vernda voða, vertu oss hjá, til aðstoða, og unn að sjá, aptur morgun roða.

## Á Miðvikudags qvøld.

Í nótt sem yfir stendur, auðmjúkir biðjum, Drottinn Guð! legg þínar líknar hendur, lík vort yfir og géf fögnuð, svo ángist þá, eingann þreyti, oss í frá, neyð vardveitir, og vekir þá, verøld dagur skreitir.

## Á Fimtudags qvøld.

Ó Guð! vor góði Herra, Guð! sem eilífa heldur trú, fyrirgéf vort hið verra, við þig fórlíkta, blessa þú, skaða ver, úti og inni, øndu, fjer, h'uti, minni, sélum vér, forsjón gjervallt þinni.

## Á Føstudags qvøld.

Faðir! ó Faðir náða! Faðir vor! sem á himnum ert, einvaldi lífs og láða, líknsamur, biðjum hjá oss vert, væið í nótt, léna lífi, svo lúnir rótt hvíldir blífi, bøl og sótt, burt þitt varðhald drífi.

## Á Laugardags qvøld.

Vikan er vel umliðin, vér því glaðværir prísum þig, Guð vor! sem gafst oss

fridinn, og gjæfu kjørin þóknanleg, lofid þér, lýdir vandi, líki hér, þad vor andi, og eilífdir, um í Födurlandi.

## Qvøld vers.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Einn er dagur æfi minnar, enn þá lidinn qvøldi ad, nægstu Jesú nádarinnar, notid hef eg í allann stad, heilsu og líf, mér hélt nú vid, hørdin þín med dýrsta frid, allir kraptar øndu minnar, efli prísinn dýrdar þinnar.

Med sama Lag.

Hæsti Drottinn, hjálpar mildi! í hønd farandi nætur tíd, med hjúkrun ædstu og hlífdar skildi, hjástod veiti nád þín blíd, Fadir! í þína fridar hønd, fel eg mína þjáda ønd, mitt sér Jesús mál ad taki, miskun Jesú hjá mér vaki.

Med sama Lag.

Nád þú, Jesú! æfi alla, um minn hag sem líkar þér, nær sem eg þig einn ákalla, opna

líknar skjól þitt mér, lát mig finna friðar slóð, fyrir þitt úthellta blóð, unn mér takmark rata hið rétta, ríka dýrðar hrósš uppspretta!

---

Lagið: Lofið Guð! Lofið hann hver sem kann.

Vært, og rótt, veit osš að sofa nú, þessa nótt, þíðasti minn Jesú! blessi mig þín miskun mæt, meinir burtdrífi, heilög þrenníng hír og sæt, hlíf sálu og lífi, hönðin þín, Herra minn góði! eydi pín, og andar móði, svo sálin mín, sætt lof þér bjóði, heldri þig gjörvøll heimsins þjóð, lofi þig allt hvað lifir og er, minn Lausnarinn góði! lofi þig allt hvað lifir og er, minn Lausnarinn góði!

---

Lagið: Í Babýlon við vatnin straumg.

Smásaman tæmist tíminn kífs, og tára minna fjøldi, enn hefur dagur einn míns lífs, endast með þessu qvøldi, síðasta lát þú svefn dúrinn, sætastann verða, Jesú minn! á brjóstum blessuðum þínum, og eptir minn erfiðis dag, eilífann géf mér gledi hag, í Abrahams faðmi friðum.

---

## Dagleg vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál.

Hörmúngin þegar hjartad slær, hrópa eg til þín Jesú kjær! véittu þá minni sálu svar, sem hana þreitta vid lífgar, holdid þó tipta þóknist þér, þad má til besta verda mér, kjærleiks merki þitt krossinn er.

---

Lagid: Uppá fjöllid Jesús vendi.

Líssins fyrir lidnar stundir, lofadur vertu, Drottinn minn! verndan þinna vængja undir, verid hef eg æ hvört sinn, þínum eptir þrái eg fundi, þú mig leid í himininn.

---

## Andláts vers.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

O, Gud! nær daudans dimmur blær, dregur sig mínu lífi nær, rétt mér þá, Fadir! þína hönd, og medtak í miskun mína önd, svo eg lifi af eymdum frí, eilífu þínu ríki í.

---

## Andvarps vers.

Lagið: Lifs reglur hollar heyrt menn.

Ætíð í heimi meðan mín, minn Drottinn! vara skal, hag minn æ geimi hjástoð þín, á heimferð um tára dal, ondin svo gleimi ángri sín, nær endar daga tal, burt úr andstreymis allri pín, innleidd í dýrðar sál.

Lagið: Morg er hriðja.

Angurs tíðir, allar loksins þverra, eptir stríðið, Drottinn Guð, vor Herra, oss mun kjæta yndið bæta, og øll sem græta, þrauta tár af þerra.

Lagið: Hver sem að reisir hæga bygð.

O Jesú! hjartans elskan mín, af øllum hug þig beiði, að heims í gégnum háska, þín, hønd almáttug mig leiði, og alla mína æfi braut, yfir sérhverja lífsins þraut, loksins til luku greiði.

2. Ekkért af øllu utan eitt, ánægir mínu sinni, þetta: að Guðs vinátta veitt, varð mér af lícan þinni, með heiður, frið og himna ljós, hresist eg nær þá glediros, sýnir þú sálu minni.

3. Önd mína, líf og allt mitt ráð, í umsjón fel eg þína, veittu mér aumum vernd og náð, veika trú lát ei dvína, gèf þú mér traust við dauða og dóm, í dýrð hjá þér með eilíft blóm, svo fái eg sæll að skína.

---

Lagið: Guðs Son í grimmu dauðans bönd.

Drottinn minn góður! gèf eg þér, gjörvallt mitt líf og efni, bevara mig og blessa hér, bæði í vöku og svefni, athöfnum stjórna öllum mín, að lifi eg eptir vilja þín, líf eilíft Guð mig láti fá, Halelújá.



# Fjórdi Flockur,

innihaldandi

## Qvøld vers

útaf þeim þremur

## Hugvekju= Fædingar= og Pasíu=Sálma=Flockum.

---

a) Utáf þeim 50 Hugvekju=Sálmum.

**1.**

Lagid: O! Gud heilagi Herra minn!

Fyrirgéf, Gud! misgjørdir mína, med hvørjum styggt hef hátign þín, svo vel í dag sem sérhvørt sinn, svefn í nótt virdstu blessa minn.

**2.**

Lagid: Sjádu og hugleid sála mín.

Hugann qvala og ángist þín, til umvend= unar sálu mín, leidi Lausnarinn mætur, øll=

um mér slísum varna við, veit blessan og þitt Engla lið, og géf oss góðar nætur.

### 3.

Lagið: Syndugi maður sjá að þér.

Ydrun, Guð! hjá oss uppvek þú, ávøxtum meður sínum, hlýfi oss øllum hjálp þín trú, við hvørskyns fári og pínum.

### 4.

Lagið: O Jesú! nafn þitt ýlmsætt er.

Ylmsætt nafnið þitt, ó Jesú! er vort frelsi og huggun trú, því biðjum þig, vor Jesú! í nótt verud þinni að oss snú, og vert oss Jesú! Jesús!

### 5.

Lagið: Drottinn eg aumur er.

O Guð! í hjarta mín, uppvek trú hreina, náð, hjálp og nálægð þín, í nótt lát mig reyna.

### 6.

Lagið: Allur syndugs manns sómi.

Hvørt skal eg, Herra! leita, hræddur af synda þín, blóðsins bjarg-skoran heita, blessaða Sonar þín, hæli er og huggun mín, at-

hvarfið það alleina, í nótt mig láttu reina, hvíld géfist þá hæg og fín.

7.

Lagið: Þá Herrans Jesú harða pín.

O Jesú! sár og undir þín, øll forþénusta, dauði og pín, er mín hjálp og endurlausn trú, aungvu þarf eg því qvíða nú, á þessu traustið øruggt hef, óhultur því í nótt eg sef.

8.

Lagið: Gleð þig, mín sál! og gjæt þú að.

Skjærasti Guð! þá skoða eg fer, skøpun og frelsun þína, eg sje þú hefur elsku á mér, og gyrnist velferð mína, í svoddan von og traustri trú, til sængur vil nú gánga, Englanna filkíng að mér snú, ei kann þá mæðan stánga, heldur hvíld hæga eg fánga.

9.

Lagið: Ris upp! réttkristin sála.

Elskunnar sønn uppspretta, ó Faðir sæti! géf þína gjæðsku rétta, svo grundað gjæti, að eg umfram allt annað, elski blessaðann þig, svo fæ eg í nótt sannað, svefnværð mín er rólig.

10.

Lagid: O! hvad mikil er miskun sú.

Drottinn Jesú! eg þacka þér, þad vid Gud afrekadir mér, frid med forþénan þín, í nótt hjartans ununin mín, ofs fordi vid slísum og pín.

11.

Lagid: Mildi Jesú! eg minnist nú.

Syndanna þúnginn þjakar mér, þad veitstu, Jesú gódi! en frá qvøl þeirri eg keiptur er, med qvala þinna flódi, í því traufti legg útaf mig, Engla þín fylkíng voldugliq, hrindi frá hvørskyns módi.

12.

Lagid: Upp! upp! mín sál.

Rétt trúar skart, edli og art, auk hjá mér, minn Frelsari! svo tál-laust þér, þad veittu mér, þjóni medan eg hjari, vardveitstu, frid, nád, líkn og lid, láttu mig í nótt reina, lof, dýrd sé þér, þú léntir mér, lífid og trúna hreina.

13.

Lagid: Bú þig sál mín, bidlar til þín.

AE! kom mér nær, ó Jesú kjær! unn-

ustinn sálar minnar, um þessa nótt, um þessa nótt, eg flý nú fljótt, í fadm miskunar þinnar.

## 14.

Lagid: Látum oss nú min ljúfust börn.

O sæti Jesú! úngbarn best, í asnastalli sem hvíldist, hvíld í nótt blessa mildur mín, mig lát hvílast í fadmi þín.

## 15.

Lagid: Eg boda ydur, Engill tér.

Þín manndóms tekning, minn Jesú! mér þad afrekad hefur, ad vid Gud sættur er eg nú, alla blessan þad gefur, á hans miskunar örmum skjótt, eg vil því hvílast þessa nótt, eingin þá eymd mig vefur.

## 16.

Lagid: Eitt gésta bod mjøg mikid þó.

Heims vellyst þá lát hata mig, himneski Gud! þess bid eg þig, sem mann í syndum vefur, en géf sár-lángi øndu mín, aptur í nádar máltíd þín, blessun gjørvalla er géfur, Gud minn! þræl þinn, vernda í nótt, frá voda og sótt, svo værd eg finni, um eilífd þín aldrei lofgjørd linni.

## 17.

Lagid: Hygg þú ad, sál mín! hvad það er.

Ósk mín það, Gud minn gódur! er, ad gjørvallir skírnar ávextir, skjært á mér mættu skína, í nótt láttu þinn Engla her, oss taka í vøktun sína.

## 18.

Lagid: Hvør sem ad hold mitt etur.

Ó Jesú! elskan hýra, eilíft lof færi eg þér, sjálfur gafst sadníng díra, til sáluhjálpar mér, helgast þitt hold og blód, enn bid eg ástsemd þína, í nótt, virdst lid mér sýna, hvíld géfst þá harla gód.

## 19.

Lagid: Í Kristi qvøldmáltíd.

Med sjálfum þér, sæll Jesú! sál vora mettar þú, bidjum í nótt vér nú, nád þinni ad oss snú.

## 20.

Lagid: Hvør sem ad Herrans hold og blód.

Hjálpa mér, Jesú, Herra minn! holds og blóds þíns þá neyti, svo vel prófadur sérhvørt sinn, sadníngar þeirrar leiti, óverdugleika allann tak, í burt frá sálu minni, í

nótt, sjálfur yfir mér vak, eingin svo neyd mig finni, þín aldrei lofgjörd linni.

## 21.

Lagið: Sjá þig, mín sál! um kríng.

O Jesú! uppfor þín, ønd svo tilreidi mín, ad sækja eptir kynni, á himnum návist þinni, vernd þín nú værd mér magni, vegsemd þín aldrei þagni.

## 22.

Lagið: Þá vor Herra til himna sté.

Heilagi Andi! huggun trú, hjálp og náð þinni til mín snú, vertu í nótt mér velkominn, verndi mig Guddóms kraptur þinn.

## 23.

Lagið: Geym ad í tæku tómi.

O! Gud eilífur Fadir! æfinlegt verdi lofid þér, ad þú mig innplantadir, í víngard þinnar kristni hér, er eg svo einn vínqvistur, á því sanna víntré, hvørt ad er Herrann Kristur, hvad kann mig þá vondt ské, í svoddan trú og trausti, til sængur legg mig nú, grædarinn gjædsku hrausti, greidist þér vegsemd trú.

## 24.

Lagið: Ef þú, sál mín! útvalníuz þín.

Guð minn Faðir! eg þacka þér, það mig útvalið hefur, til eilífs lífs, án eymda kífs, alla það huggun géfur, öfluga trú, mér inngéf þú, eg svo sameinast gjæti, fast við þig, Faðir sæti! en ef það skér, sem opt til ber, af lífsins veg, að villist eg, veittu það aptur snúi, hvíldar nú til, eg hallast vil, hjá mér þín aðstoð búi.

## 25

Lagið: O! hvað bæn mannsins öflug er.

Mildasti Guð! eg þacka þér, það aumum lofað hefur mér, með bæn við þig að þreita, líka heitið að hvörs eg bið, og hvað þú sjer mig þurfa við, það viljir víst allt veita, æ! géf þú náð og Andann þinn, að eg rétt kunni, Drottinn minn! þig einann að ákalla, í Jesú nafni nú eg bið, nótt þessa virðst mér sýna lið, og afmá ógn gjörvalla.

## 26.

Lagið: Sjá hér Guðs miskun, sála mín!

O Guð! sem lætur Engla þín, í heimi veg vorn greiða, og hættulaust frá hvörs-

kyns þín, til himnaríkis leida, lát þessa sömu nú í nótt, náqvæma vernd oss sýna fljótt, eingin þá eymd kann meida.

## 27.

Lagid: Tak þig i vakt þú veslug sál.

Mildur Gud! géf mér varast vel, vondsku fullt Djøfuls-svika þel, hann svo aldrei úr høndum þín, hripsa burt kunni sálu mín, í nótt sem alltíd endrarnær, ásókn hans forda, Drottinn kjær!

## 28.

Lagid: Lífs reglur hollar heyrid menn.

Lífs reglur gódar, Gud minn! mér, géfou ad stunda vel, dygdugt líf svo framdragi hér, og deyi ad saki ei hel, í nótt blessudum eg nú þér, efni mín gjørvøll fel, miskun þína ef mér veitir, mig þá fullsælann tel.

## 29.

Lagid: Hvor um þad hugsa vildi.

Høndin þín, Gud! mig geimi, gáleysi hrind burt frá, vrit mér í vondum heimi, varfærlega framgá, ógnan virdst alla taka, í nótt frá hvílu mín; og vel yfir mér vaka, vernd medur Engla þín.

## 30.

Lagid: Frelsarans er framferdi.

Þinn dygda feril fróma, feta gef, Jesú! mér, en heims illann ósóma, ad varast svo sem ber, eg bid ástsemi þína, í nótt hjá hvílu mín, vaka og vøktun sýna, veitist þá rósemd fín.

## 31.

Lagid: Heyr, min sál! hvad þinn Herra tér.

O Jesú! lát þú ætíd mig, adhillast mest blessadann þig, en mér sjálfum afneita, um þessa nótt veit adstod þín, ad í þér vaki sálin mín, svo skal hún sífeldt breyta.

## 32.

Lagid: Hvar viltu, sál mín! huggun fá.

Í heims hégóma ei lát mig, eg beidi þig, ó Jesú! yndis leita, en í blessudum undum þín, øndu gef mín, hafa rósemd hagneyta, því ef eg er, áheingur þér, óqvídinn þá, sætt sofa má, þú kannt mér vøktun veita.

## 33.

Lagid: Hvad sem þú mann vilt hafast ad.

Veit mér, Gud! allri athøfn í, eg gjæti ad því, samvitsku hafa hreina, ef á dóms degi

ógnarlig, áklagar mig, hjálp fæ þá hvergi neina, en sé hún góð, þá misði ei móð, gladur þá vil, gá hvílu til, lidsemd þín lát mig reyna.

### 34.

Lagid: Vird þú fyrir þér, ond min aum!

Himneski Gud! lát hata mig, hofmód og drambsemd ljóta, en lítilætis arka stig, uppheſd svo mætti hljóta, virdstu í nótt mér vera hjá, vardveitslu medur þinni, svo frid eg finni, eg er fullviss ad eckért þá, ama kann sálu minni.

### 35.

Lagid: Sáluhjálp manns, sem auglióst er.

O Gud! veit mér, eg þig bid, ánægju stunda besta, en aura safnid aldrei vid, med á-girnd hjartad festa, ó minn Fadir! sýn ad-slod mér, aumri barnsképnu þinni, vernda í nótt, frá voda og sótt, vak yfir hvílu minni.

### 36.

Lagid: Osœurgud- elska ecki má.

O Gud! géf ad øll íllska þver, út af slokni í brjósti mér, en sanna elsku, ást og trú, aptur þar tendra virdist þú. í nótt mér virdstu vera hjá, og venda burtu allri þrá.

## 37.

Lagid: Hreinlífi hann skal stunda.

O, Gud Fadir eilífi! óhreinleika sem hatar brest, adstod þín æ mér hlífi, af = þvo saurlífis kámid vest, en út af øllu hjarta, adhillast láttu mig, skírlífis blómid bjarta, best sem ad gledur þig, í nótt virdst allri venda, ógnan frá hvílu mín. lát mig svo hjá þér lenda, loks þá hérvistin dvín.

## 38

Lagid: Settu, min sál! í þánka þér.

Hugfesta géfdu, Herra! mér, hvørsu mitt líf fánevtt er, mædufullt og óstødugt er, eg svo ad kunni leita, unadsemdar þér einum hjá, í nótt varna vid hvørskyns þrá, og vyrdst mér rósemd veita.

## 39.

Lagid: Sál min! elskadu ecki heitt.

Hugleida géf mér, Herra minn! hvad hégómleg sé veroldin, ad hana ei eg ræki, umfram allt þetta aptur mig, akta og virda blessadann þig svo mest eptir þér sæki, í nótt virdstu mig, elskan mín! ørmum vessa miskunar þín, eingin þá grandar ángurs pín.

## 40

Lagid: Sannkristin sál, þad sómir þér.

Freistingar nær ed þókuast þér, þídasti Gud! eg reyni hér, auk mér þá orku stinna, lát mig hugleida ad eptir á, allmarga gagnsemd verkad fá, ef næ þær yfirvinna, eg bid, legg lid, mér í nótt, svo fái fljótt í fadmi þínum, hvíld væra, svíptur hvørskyns pínum.

## 41.

Lagid: Min sál med þockum þigdu.

Witt, minn Jesú þolgjædi, þess bid eg hvørt eitt sinn, minnar sé þolinmædi, mætur grundvøllurinn, þig einann eg ákalla, adstod í nótt mér sýn, af øllum fyrir alla, á øllu leidstu pín.

## 42.

Lagid: Nær mun koma sú nádar stund.

Hugga lát mig þad, Herra minn! hvørsu eg kann fyrir styrkleik þinn, til lykta stødugt standa, í sannri ydran, ást og trú, auk mér til þess fullting nú, med adstod heilags Anda, Gud minn! Gud minn! í nótt mig, þess eg bid þig, virdstu ad þér taka, eckért kann mig þá uppá saka.

## 43.

Lagið: Væntu æ daudans, vinur kjær!

O Guð! gef þeinka ætíð mér, á minn dauða í vereld hér, óvissu heli og aldri þín, í nótt oss fordi gjædskan þín.

## 44.

Lagið: Æ, kristin sál! umhugsa svers.

O Guð! ef missi eg ástvin minn, athuga lát mig það hann finn, síðar í dýrð þér sjálfum hjá, sef eg nú fullviss þar upp á.

## 45.

Lagið: Þá Kristur kémur.

Þú, Drottinn dýri! dómarinn skíri, sýn mér fulltíngi, á síðasta þíngi, hjá hvíln míuni, haldt nú vernd þinni, þitt lof ei linni.

## 46.

Lagið: Ei máttu, sál min! ekka dátt.

O Guð! sárlánga æ lát mig, eptir dýrð himna-ranna, en hugleiðandi hvað hégómlig, hérvistin, sé mannanna, í nótt sem ætíð endrarnær, aðstoð sýn þú mér, Faðir kjær! frið svo eg fái kanna.

## 47.

Lagid: O Drottinn! alsvaldandi.

O! dýrd óſegjanlega, í himneſkum dýrdarſal, æ ad eg án alls trega, ódlaſt kynni þitt gjæfu val, þad, Jeſú! vindſt mér veita, verndan nú, ſýn hágneyta, í ſvoddan trú, ſæng- ur vil eg leita.

## 48.

Lagid: Eiliſt liſid er aſkilegt.

Lát mig hugleida, Herra minn! heidur og sóma þann, ſem eg ſkal fá nær innkominn, er í himnanna-rann, Englum þín og útvold- um hjá, um eilífd eg giſta ſkal, med eigin augum þig ſjálfann ſjá, og ſífeldt þitt heyra tal, ó Drottinn! þeſsa unn þú mér, um þad nú fullvíſs ſofa fer, vardveit mig ollu íllu frá, í nótt og hvörja tíd, verndan þinni mér hald þú hjá, hvíldin ſvo veitiſt blíd, greidiſt þér, þrenníng guddóms há! gott lof- id ár og ſíd.

## 49.

Lagid: Hver kriſtin ſál hugleidi.

Hugfeſta géfdu, Herra! mér, hvad vítis qvolin bitur er, ſvo eg fordiſt þá ſáru pín, ſvoddan ſkal nú heit qvoldbæn mín, í frá ollri neyd, til eilífs lífs mig innleid.

50.

Lagid: Ef þú, kristin sál! athugar.

Athuga lát þú, ó Gud! mig, óendanleg, helvítis hørd er pína, svo ad eg fortíst svoddan bøl, og sálar qvøl, legg þar til lídsemd þína, uppá þá trú, óhult sef nú, þrenningin vís, þitt lof og prís, ei nái um eilífd dvína.

---

## b) Utaf þeim 30 Fædíngar-Sálmum.

1.

Lagid: Upplíptu, sál mín! eina stund.

O Jesú! herra mín eilífulig, í heiminn komstu svo ad mig, eilífs deyds skatt-skrift frelstir frá, fullvíss um þad eg sofa má.

2.

Lagid: Medan dvaldist í Davíds stad.

Fyrir holdgan og fædíng þín, Frelsarinn Jesú! hjálpin mín, endurfæd aumann mig, í nótt vaktin þín ágjætlig, um kríng sæng mína breidi nú sig.

3.

Lagid: Gudspjallamann þess gétur.

Heilagra Engla herskarinn, hér á jördu, Frelsari minn! bodadi fæding fida þín, fær þer af huggun sálin mín, slíkar himnesskar hyrdsveitir, haldi nú voktun yfir mér, svo eg óhræddur sofa fer.

4.

Lagid: Himnesskir herskarar.

Fridinn þín fæding þá, færdi og jördu á, minn Jesú! mér hann tjá, mun eg rótt sofa þá.

5.

Lagid: Þegar ad Engla syking frá.

Géf mér, Frelsarinn fridi minn! fjárhyrdrum med ad skoda, fædingar blídann fögnud þinn, frelsum þau ord mér boda, í nótt virdstu mér vaka hjá, verd eg fríadur efalaust þá; vid allókyns eymd og voda.

6.

Lagid: Hyrdarar héldu brátt.

Lof fyrir fæding þín, frítt lát mig vanda, ó Jesú! í nótt þín, ei mun þá granda.

7.

Lagið: Atta dögum eptir þetta.

Fyrir umskurn fögra þína, Frelsari minn! eg þig bið, umskér jafnan öndu mína, illgjörða frá ljótum sið, í nótt mín gjæti, og neyð burt ræti, náqvæmast þitt verndar lið.

8.

Lagið: Í Betlehem þá borinn var.

O Jesú! nafn þitt æðsta, eg bið af hjartans rót, færi mér frelsun stæðsta, frá Djöfuls véla nót, í hvörskyns harma bót, uppá það æfadur, eg vil nú sofna gladur, svo mig ei sakar hót.

9.

Lagið: Í Betlehem þá borinn var.

Dýrð þíns leiðstjörnu, ó Jesú! af hjarta lát mér sýgja nú, vidlíkt og stjarnan vísar-sín, Vitríngum leið að stalli þín, í nótt sem ætíð endrar=nær, orð þitt mig huggi, Drottinn kjær!

10.

Lagið: Heródes fullur hræsni þá.

Heródis fals og fláttskapinn, forðast lát þú mig, Jesú minn! eg svo med hræsni aldreji, af mér brjóti þitt hjálpræði, enn

aptur stundi einlæga, ást til Guds míns og náúnga, allskyns svikum og ángurs pín, í nótt oss fordi gjædskan þín.

## 11.

Lagid: Vitríngar hlýdt nær hofdu.

Géf mér, gódi Lausnari! gnllid trúarinnar, medan hér mæddur hjari, og mirru holds deydíngar, item reikélsi bænar best, þér færa þá eg reini, þitt í nótt forsvar mest.

## 12.

Lagid: Hér nærst þá dagar hreinsunar.

Ó Jesú kjæri! eg bid þig, unnustinn sálar minn, ætíd virdst hreinsa aumann mig, af óhreinleik syndarinnar, fyrir þitt úthellt hjarta blód, hvíld í nótt mér þá veitist gód, undir væng ástar þinnar.

## 13.

Lagid: Sjá þú! í Jerúsalem var.

Ó Jesú! mína sálar sjón, svo lát mig á þér festa, sem sá gudhræddi Simeón, sú er hugguniu mesta, í svoddon von og traust=ri trú, til þín flý hvörju sinni, í mædu minni, skýl þú, Drottinn! í nótt mér nú, nádar verndi undir þinni.

## 14.

Lagið: Simeon sveininn kann.

Svo lifa eg fari í frið, Frelsarinn gef þig bið, frivar þíns frelsið bjarta, faðmi í nótt mitt hjarta.

## 15.

Lagið: Og hans foreldrar undrast.

Ó Jesú! lát þú aldrei mig, á þér hreirlaast, þess bið eg þig, gef mér að elska orðin þín, í nótt þau sén huggun mín.

## 16.

Lagið: Spákona hét þar Anna ein.

Eins og Spákona Anna vel, orð þín, Jesú! léð grunda, gef mér svo hreint með hjartans þel, helst eptir þeim að stunda, Mustari þitt, mun þá neyð sitt, mig lát af alúð rækja, í nott þér hjá, mín heillin há, hvíld og ró vil eg sækja.

## 17.

Lagið: Og sem þau hösðu allt fullgjort.

Andleg gef framför eblist mín, ó, minn Frelsarinn sæti! svo eptir dygða dæmi þín, daglega þróast gjæti, í alskyns dygð, fyrir utan styggð, aumur á meðan hjari frá eymda sótt, mig nú í nótt, náðin þín b.st forvari.

## 18.

Lagið: Jóseph byrtist í draumi dýr.

Lát mig aldrei, ó Jesú kær! á falska drauma trúa, í nótt sem ætíð endrarnær, æ virðst þeim frá mér snúa!

## 19.

Lagið: Uppstóð Jóseph. við orðin téð.

O Jesú! heill mín ástúðlig, útlegð þú þoldir fyrir mig, vítis útlegð svo freistist frá, forsjón þín há, í nótt mér virðist vera hjá.

## 20.

Lagið: Þegar Heródes heyrði þar.

Hastri bræði og haturs síð, Herra Jesú! mér forða við, ólucku frá og allri pín, í nótt mig verndi gjæðskan þín.

## 21.

Lagið: Heyrst hefur kall á hæðum þar.

Aldrei lát mig, ó Jesú minn! ángra jarðneskann missirinn, en þér einum fast halda, í nótt virðist almáttur þinn, um mig vernd sinni halda.

## 22.

Lagið: Enn þá Heródes hafði.

Heródes heiptar næmi, Herra! lát forð-

æst mig, ei svo eptir hans dæmi, út taki hriggilig, megn gjöldin misgjörda, í nótt frá alskyns pínum, Engla með skildi pínum, vidrstu mig vardveita.

## 23.

Lagið: Jóseph tók með sér barnið.

O Jesú! þú edla vintré, dvörtur Sarons réttur, aumum géf mér, eg ætíð fé, á þig vel gródursettur, með sannri trú, svo að eg nú, synda fráskiljist gøllum, í nótt þig bið, mig vernda við, voda og slisum øllum.

## 24.

Lagið: Árlega Jóseph meyu með.

Hvíldar daga og hátíder, Herra! géf vel að rækja mér, audagt svo með og eptirtekt, orð þitt eg stundi hjálpsamlegt, það í nótt huggi og hressi mig, hvíld mín þá verdur rósamlig.

## 25.

Lagið: Enn sem þeir dagar enda sá.

O Jesú! géf þú aumum mér, æ með trúnni behalda þér, svo að eg aldrei sakni þín, sértu í nótt vardveitslan mín.

## 26.

Lagið: Minnumst við, sál mín! enn þar á.

Guðbræddra selskap gef þú mér, góði Jesú! að stunda hér, en heimsins forðast hrekkja sið, hlíf þú í nótt mér slíkum við.

## 27.

Lagið: Eptir þrjá daga dýra.

Ætíð gef orðum þínum, eg trúi, Jesú min n! svo eg í mæðum mínum, mistryggi ei guðdóm þinn, haldur þig einann þekki, þýðt fyrir hjálpráð mitt, láttu Andskotann ekki, í nótt mér sýna hrekki, og hvørskyns hrelling stitt.

## 28.

Lagið: Þá hjónin Son Guðs sáu rétt.

Af dæmi þínu æ gef mér, ó minn Jesú! að læra, vild þína stunda vel sem ber, við mér þá er, vernd þín í nótt frábæra.

## 29.

Lagið: Ferðaðist Jesús þá með þeim.

Af hlýðni þinni, Herra kjær! hlýðnina gef mér stunda, svo eg ei'ski þín orðin skjær, í nótt lát vært mig blunda.

30.

Lagid: Eins dásamlega og upphaf tókst.

O Jesú! gef mér anda þinn, ad eg daglega kinni, laga syndugann lifnad minn, ljóst eptir framfør þinni, í nótt sem ætíd endrarnær, eg mig þér befel, Drottinn kjær! þín aldrei lofgjørd linni.

---

c) Utaf þeim 50 Passíu = Sálmum.

1.

Lagid! Upp! upp! min sál, og allt mitt geð.

Med gaungu þinni í Grasgardinn, gáng fyri synda bættir minn, Endurlausnari ástkjæri! eilíf vegsemd þér jafnan sé.

2.

Lagid: Jesús geck inn í Grasgard þann.

Hvolin Grasgardsins kramdi þig, kjærasti Jesú! fyrir mig, med henni bættir mína neyd, mér af því veitist huggun greid, hér fyrir nafn þitt háblessad, háleitlega sé vegsamad.

3.

Lagid: En vil eg, sál min! uppá ný.

Dandastrídid þitt, Drottinn minn! dauda

míns sefar harmqvælín, andláts þar fyrir eptir tíd, óttalaust eg og gladur bíd, fyrir velgjørdir þeßar þín, þackar af hjarta sálin mín.

## 4.

Lagid: Postula kjøri Kristur þrjá.

Samtal sem hélst vid sveina þín, sæll Jesú! Grasgards framinn þín, uppvekja láttu, eg bid þig, uggaleysis af svefni mig.

## 5.

Lagid: Medan Jesús þad mæla var.

Í Grasgard komu Gydíngar, grípa þá létst þig Jesús þar, Andskotans makt svo ógnarlig, undir sitt vald ei hripsi mig, eilífkunnar gjørníng þeannan þinn, þacka eg ædsti Herra minn! heidur sé þér í hvørt eitt sinn.

## 6.

Lagid: Frelsarinn hvørgi fiýdi.

O minn Frelsarinn frídi! fláræðis leidsku keßs, svo Djøfuls svika nýdi, síst mætti hrella oß, þú létst þig þræla binda, því urdum leistir vér, af sárum fjøtrum synda, sé eilíft lofid þér.

7.

Lagid: Lausnarans Lærisveinar.

O minn Jesú ástkjæri! ei vildir hefna þín, íllir þó ad þér færi, aukandi svik og pín, lét hér af læra mig, med hógværd hrecki lída, og hefndir láta bída, en óttast einann þig.

8.

Lagid: Taladi Jesús tíma.þann.

Vanþöck Júda gef varast mér, ve'gjørd sem smádu þína, ó minn Jesú! en ætíd þér, elsku og hlýdni sýna.

9.

Lagid: Þá Lærisveinarnir sáu þar.

Lærisveinar þér flýdu frá, Frelsari minn hinn blídi! einsamall varstu eptir hjá, íllsku-fullasta lýdi, af því forlætur aldrei þú, einann mig nockru sinni, í mannraun minni, følskum heims solli frá mér snú, flærd hans svo aungvann ginni.

10.

Lagid: Til Hannas húsa, Herrann Krist.

Ransakid skarpt sem poltir þú, þídasti Herra minn Jesú! frá koguu oss ad fría, uppveki mig ad athuga, ástandid lífs míns daglega, sídur mun synd þá dýgja.

## 11.

Lagid: Gudspjalls Historian gétur.

Lifandi lífsins Herra, lát Péturs afneitan, svo ei vinni þad verra, vera mér íhugan, ad aldrei frá þér falli, í freka synda lyst, en þig ætíd ákalli, svo eignist dýrdar vist.

## 12

Lagid: Pétur þar sat í sal.

Alít mig eins, Jesú! í miskun þinni, og Pétur ádur þú, ydrast svo kynni.

## 13.

Lagid: Foringjar Pressa fengu.

Þú kløgun þoldir ránga, þeyandi, Jesú minn! ei mun því um mig gánga, ákjæra Djøfuls stinn, ásókn heims ærid strída, ó Herra géf mér lída, med hógværd hvørt eitt sinn.

## 14.

Lagid: Eptir þann dóm sem allra fyrst.

O Jesú! þú leidst þræla spé, þar med frá forsmán eilífri, fullt hef eg ødlast frelsi og nád, fordast lát þú mig spott og hád.

## 15.

Lagid: Mjøg árla uppi vóru.

Arla, ó Jesú! héldu, yfir þér Prestar rád,

og dauda dóm á feldu, dýrdleg huggun og nád, ætíd mér eikist af þessu, er það frelsunin mín, frá hardri heljar pressu, heidrist því mildin þín.

16.

Lagid: Júdas i girndar grádi.

Júdasar ágirnd illa, og flærdar bølvad tál, aldrei lát of fast villa, ó Jesú! mína sál, eg bid enn framar þig, ørvænting yfrid skjæda, alla virdst hjá mér græda, á lífs veg leid þú mig.

17.

Lagid: Svo sem fyrr sagt er frá:

Framandi í heimi hér, Herra minn! veittu mér, sem Guds barn sé greftradur, sál veitist dýrdar stadur.

18.

Lagid: Arla sem glogt eg greina vann.

Þrefaldar sakir þvert á mót, þér færdu, Jesú mildi! Gydingarnir med heiptar hót, hér svo eg kvittast skyldi, um þrefalt bann, mig þvínga vann, þjakadann marga vega, líkn fyrir þá, þér lof vil tjá, Lausnarinn! eilíflega.

19.

Lagid: Gydingar høfdu af hatri fyrst.

Himnesk Kóngs tign þín, Herra minn!

huggar mig aumann þræ'irn þinn, eg veit því ertu mér, vrrnd og forsvar í veröld hér, veitt sé eilíf lofgjörðin þér.

## 20.

Lagið: Pilátus hafði prófað nú.

O Herra Jesú! þögn með þín, þegar varst áklagaður, bættir þú fyrir mælgi mín, má og því hjarta glaður, umbera allskonar, áráfir veraldar, signað þitt sakleysi, sök mína borgaði, vertu því vegsamaður.

## 21.

Lagið: Þegar Heródes Herrann sá.

Heródes fyri holdlega, Herra! mig fordast láttu, enn ellu framar athuga, eiginn lífnaðar háttu, fatið hvítt baristu forsmánar, Frelsari minn, hinn kjæri! svo að eg bæri, hvítfágað klæði helgunar, heiðurinn þér því færi.

## 22.

Lagið: Frá Heróde þá Kristur kom.

Júðar með blindað íllsku óp, ó Jesú! krossfestingar hróp, óvægir gjörðu yfir þér, eg því sannlega frelstur er, Helvítis veins frá harðri pín, hér fyrir prísist gjæðskan þín.

## 23.

Lagio: Pilatus Herrann hædsla.

Herra Jesú! harmkvæli, húdstrýking púngri í, leidstu, svo þínum þræli, þar géfist huggun ný, fullkomlega eg frelstur er, Helvítis frá húdstroku, heidur sé Drottinn þér.

## 24.

Lagid: Illvirkjar Jesúm eptir bad.

Ad þínu höfdi þyrni krans, þreingdu! ó Jesú kjæri! hreckvísir þrælar hirdstjórans, herleg svo skeinkt mér væri, heidurs Kóróna himnum á, hér fyrir vil þér lofgjörd tjá, á medan mig eg hræri.

## 25.

Lagid: Landsdómarinn þá leiddi.

Eg nýt útleidslu þinnar, ástkjæri Frelsarinn! er hún útfarar minnar, inngánga í himininn, hér af glödst hugur minn, fyrir þá frelsun skjæra, fagurt lof, prís og æra, sé þér í hvort eitt sinn.

## 26.

Lagid: Hér þá um-Guds Son heyrdi.

Heimsins ofhrokann illa, og bölvad ránglæti; sem vann Pílatum villa, veit ad eg umflýi, ó Jesú allrar mildi, en blessad

veldið þitt, hafi í hæðsta gildi, hlíf mér með verndar skildi, mæðu stund mun þá stitt.

## 27.

Lagið: Pílatus heyrði hótað var.

Kóngs tign þín, Jesú! eilíf er, undir þinni gef stjórnan mér, framgánga rétt svo fordist þín, Frelsarinn heyr andvarpan mín.

## 28.

Lagið: Pílatus sá að sonru far.

Hræsni bølvaða úr hjarta mér, hvør illa skartar fyrir þér, burttak, Frelsari mæti minn! mig virðstu gjøra hreinskilinn, úrskurðar harða andláts þín, álygtun sé fríunar mín, en úthellt blessað blóðið þitt, besta græðsla og friðið mitt.

## 29.

Lagið: Seldi Pílatus saklausann.

Fyrst þú varst dæmdur, Drottinn, hár! dauða til ósekaður, sekum mér veittist verndin klár, við vítis fár, vertu því hátt lofaður.

## 30.

Lagið: Stríðsmenn Krist úr kápu færðu.

Þú barst krossins púnga, móður, þér á herðum, Drottinn minn! auk mér stirk að

og þolgóður, allskyns líði mótgánginn, loks svo með þér mínum bróður, mætust hreppi umskiptin.

## 31.

Lagið: Fólkið sem Drottni fylgdi út.

Ræða þín, Kristí! qvinnur við, kross áður leiðstu dauða, knýi mig gráta synda síð, svo vítis kénni ei nauða.

## 32.

Lagið: Grænir Jesús um græna tréð.

O Jesú! lífsins eykin græn, eyk mér þornaðri veit þá bæn að sætast náðar saftin þín, sálu ørþirsta vøkvi mín.

## 33.

Lagið: Kom loks með krossins birði.

Krossins hørð kvala pína, Kriste! sem leiðstu hér, holls girnd hreckvísa mína, hvørn tíma deyði í mér, og þá fulltrúa er, að kvittun hýra hljóti, og hæðstá Guðs friðar njóti, Drottinn minn! dýrð sé þér.

## 34.

Lagið: Þegar kvalarar krossinn á.

Bón þín, minn friði Frelsari! fyrir óvinum þínum, er keirðu þig á krossins tré, kjæti lér huga mínum, af því eg veit þín árnan

nú, ædstann Guð við mig sættir nú, synda svo sviptist pínum.

### 35.

Lagið: Utskrift sem Pilatus eina lét.

Utskrift sem fest var yfir þér, ó minn Frelsari blíði! yndi og huggun eykur mér, ecki því neinn qvíði, af mér er list, harðri handskrift, hótaðri í lögmáls greinum, undir stjórn þín, sem aldrei dvín, eg lifi frí frá meinum.

### 36.

Lagið: Stríðs menn þá hofðu krossfest Krist.

Klæðum þín, hjartans Herra minn! heiðnir skiptu með sér, af því ræð eg að á krossinn, upphengdur varstu ber, með þessu keiptir klæðnaðinn, klárann réttlætis mér, lof fyrir gjörníng þennann þinn, þér sé um eilífðer.

### 37.

Lagið: Uppreistum krossi Herrans hjá:

Mildi Jesú! sem móður þín, mæddri réðst forsvars leita, þegar þig krossins þjáði pín, þú munt ei heldur neita, um þitt hjálpræði aumum mér, af öllu hjarta treysti eg þér, forsjón og vernd að veita.

## 38.

Lagid: Þeir sem ad Kristi krossi senn.

Þú bríxlin krossi þoldir á, þýdasti Jesú mildi! eg svo af hádúng, hugd og þrá, helvítskri leysast skyldi, fyrir velgjörníng þennann þinn, þér greidist lof margfalda, háleitt þitt nafnid, Herra minn! heidrist um alldir allda.

## 39.

Lagid: Annar Ræníngínn raddi.

Ræníngínn rédi leita, ríkis þíns, Drottinn minn! eins hjartans ydran heita, uppvek hjá mér hvert sinn, forherdíngu vid forda, frids medan stendur tíd, leid mig veg lífsins orda, lof sé þér ár og síd.

## 40.

Lagid: Uppá Ræníngjans ord og bón.

O Jesú! géf svo ydrast mér, allra synda sem drýgda eg hér, ad loks innleidist önd-in mín, í Paradísar víst til þín.

## 41.

Lagid: Um land gjörvallt vard ýfrid myrkt.

Forlátinn kvadst þig, Herra hreinn! hædst-um af Födur þínum, dimmunni í þá daud-ans fleirn, dróst ad þér krapt med sínum,

aldrei mig því í eymdum mín, yfirgéfur
miskunin þín, hægð er það huga minum.

42.

Lagið: Í sárri neyð, sem Jesús leið.

Um þorsta þú, þýði Jesú! þúnglega náðir
kvarta, þurk vítis þá, mig frelstir frá, fyrir
það þá, færist þér dýrð af hjarta.

43.

Lagið: Eptir að þetta allt var skéð.

Fullkomna náð og frelsi mér, fullkomnað,
þú minn Jesú! tér, þegar á krossi þoldir
pín, þar fyrir prísist gjæzkan þín.

44.

Lagið: Hrópaði Jesús hátt í stað.

Lát blessuð andláts ordin þín, í hug mér
jafnan standa, svo ætíð feli eg öndu mín,
ó Jesú! þér til handa.

45.

Lagið: Þá Frelsarinn í Feburs hend.

Endurlausnarinn ástkjæri! andlátið þitt á
krossins tré, makt og afl daudans yfir-
vann, ecki grimd hans mig snerta kann, feginn
því skil eg veröld við, viss um gleði og sálar frið.

45.

Lagið: Þegar Kristur á Krossins tré.

Undur sem skédi í afgáng þín, ó minn
Frelsari mæti! hjartans ydur lát hræra

mín, hrecki svo varast gjæti, þínum vanmætti mesta í, mátt þinn og krapt þau syndu frí, dýrd sé þér, Drottinn sæti!

47.

Lagid: Kunníngjar Kristi þá.

Kross þíns eg kunnínguinn, kém til þín, Jesú minn! lausn þar og lækníng finn, lof sé þér hvert eitt sinn.

48.

Lagid: Ad qvoldi Júdar frá eg færi.

Af sídu og hjarta sári þínu, signad blód og vatn útrann, Herra minn! sem hjarta mínu, hreldu lausn og svolun fann, beitu lofi hjartans sínu, hvør þér offri kristinn mann.

49.

Lagid: Jóseph af Arimatía.

Gódi Jesú! med greftran þín, greftrun hefur þú helgad mín, og mínar grafid misgjørdir, margfeld hér fyrir dýrd sé þér.

50.

Lagid: Oldúngar Júda annars dags.

Af vakt grafar upprísa þín, ó Jesú! mér fyrir sjónum skín, fullnadar bót því útlegd er, fyrir alla af þér, heidri þig allt sem hræríng ber. Amen.

## Prentvillur:

Bls. 3. l. 16. ganngu les: gaungu. Bls. 9. l. 16. horsin l. horfin. Bls. 9. l. 20. Beleſsadur l. Blessadur. Bls. 12. l. 16. sól l. sól. Bls. 13. l. 5. uppljómandi l. uppljómandi Bls. 18. l. 3. tll l. til. Bls. 19. l. 16. Gudt l. Gud! Bls. 23. l. 16. lisir l. lifir. 26. l. 2. kemur annad l. kémur i annad. Bls. sömu l. 14. Fedurinn l. Födurinn. Bls. 29, l. 4. þinnu l. þinum. Bls. 32. l. 2. óþacktatid l. óþacklætid. Bls. 35. l. 7. lof l. lof, sömu sidu l. 15. eilisi l. eilifi. Bls. 40. l. 17. fridþægdir l. fridþægdir. Bls. 43. l. 23. eptir þá, bætist inní: þá. Bls. 52. l. 12. lát l. lát; sömu sidu l. 16. danda l. dauda. Bls. 54. l. 5. all.a skjoldur l. allra skjöldur. Bls. 57. l. 23. fremdum l. fromdum. Bls. 61. l. 13. sjáifur l. sjálfur. Bls. 66. l. 20. barma l. barna. Bls. 73. l. 18. fótnar l. fórnar. Bls. 87. l. 10. Hel.luja l. Halelúja. Bls. 89. l. 5. brúdkanp l. brúdkaup. Bls. 99. l. 2. falar l. sálar. Bls. 101. l. 1. sölln l. sólin. Bls. 103. l. 3. ýýr l. dýr; sömu sidu l. 11. mig l. mig. Bls. 116. l. 10. daudans l. daudans. Bls. 123. l. 21. Gnds l. Guds. Bls. 128. l. 8. . l. , Bls. 131. l. 3. sómi l. sómi. Bls. 132. l. 11. lofi l. lofi; sömu sidu l. 19. fodurlans l. fedurlaus. Bls. 135. l. 22. nýs l. ný, Bls. 136. l. 10. sæ l. sæl. Bls. 139. l. 20. hennar l. hennar. Bls. 140. l. 8. nu l. nú. Bls. 149. l. 18. eilisu l. eilífu. Bls. 165 l. 12. hviln l. hvilu.



